LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSETUNGS!

# Stéttabaráttan



MÁLGAGN KOMMÚNISTASAMTAKANNA MARXISTANNA – LENÍNISTANNA 2.tbl. 2.árg. 1973

# Kreppu auðvaldsins velt yfir á verkalýðinn

# SÓSÍALISMINN EINA LAUSNIN!

Ráðstafanir "alþýðustjórnarinnar" í efnahagsmálum hafa nú fært verkalýðnum heim sanninn um að ríkisvald borgaranna kann aðeins eina leið til að vernda sinn eigin gróða, en það er að lækka laun verkamanna. Það skiptir ekki máli hvort þeir kalla sig "alþýðustjórn" eða "viðreisnarstjórn". Í kapítalísku þjóðfélagi eru aðeins hagsmunir einnar stéttar hafðir til viðmiðunar, þegar leysa skal efnahagsvanda kapítalistans. Gengið er fellt, settir eru á aukaskattar og vöruverð hækkað, allt til að viðhalda og auka hámarksgróða kapítalistanna.
Í þessari grein munum við sýna fram á hvernig efnahagsráðstafanir ríkisstjórnarinnar eru bein kauplækkun fyrir verkalýðinn og að allar hennar efnahagsráðstafanir koma aldrei til með að verða neitt annað. Þess vegna verða verkamenn að læra að skilja, að einangruð barátta þeirra fyrir krónu meir færir þá ekki hænufet nær lausninni nema þeir tengi kjarabaráttuna órjúfanlega í öllum spurningum baráttunni fyrir afnámi kapítalismans og stofnun alræðis öreiganna.

## GENGISFELLING ER ÁVALLT LAUNALÆKKUN.

Athugum fyrst almennt, hvað það þýðir fyrir öreigana, að gengi krónunnar er fellt. Er það mögulegt, að ein gengisfelling geti haft annað inntak en önnur? Þegar gengið hefur verið fellt um samanlagt 23%, þá kemur það út fyrir launþegann (öreigann) sem 23% lækkun á launum miðað við þær vörur, sem verkamaðurinn þarf sér til lífsviðurværis. Ofan á þessa gengisfellingu (lækkun verðgildis peningsins) kemur síðan viðaukaskattur með 2% hækkun söluskatts (sem þýðir 2% vöruverðshækkun) og 1% hækkun a tekjuskatti.

Auk þessara ráðstafana, sem eru beint til þess að lækka launin, koma hliðarráðstafanir, sem einnig lækka launin - frysting vísitöluhækkunar á laun, áfengi og tóbak er tekið út úr útreikningi á kaupgreiðsluvísitölunni til 1. des. 1973 og það nemur 1,8%. Einnig verður eitt vísitölustig fellt niður "vegna aukinnar þátttöku ríkisins við tannviðgerðir". Heildarlækkunina er ekki gott að sjá nákvæmlega, en 30-40% er nærri lagi.

Sá grundvallarmunur, sem Lúðvík Jósepsson talar um, að sé á þessari gengisfellingu og þeim, sem áður hafa verið gerðar, á að felast í því, að "Alþýðubandalagsmenn eru ekki hrifnir af gengisfellingu, en það er sá grundvallarmunur á þessari gengisfellingu og þeim, sem áður hafa verið gerðar, að nú er gert ráð fyrir að kaupgreiðsluvísitalan mæli þær verðhækkanir sem hljótast af hærra verði erlends gjaldeyris." (Lúðvík í Þjóðviljanum 19. des. 1972.)

Auðvitað eru þetta svívirðilegar lygar eins og sést bezt á því, hvernig kaupgreiðsluvísitölunni hefur verið kippt úr sambandi með niðurgreiðslum á vísitöluvörum, og þær vörur, sem ekki eru greiddar niður eru teknar út úr vísitölunni (áfengi og tóbak) og í síðasta lagi eru útgjöld ríkisins til heilbrigðismála sett inn til að lækka hana, þannig að nú er vísitalan í algjöru sambandsleysi við hækkun "verðlags erlends gjaldeyris" eins og Lúðvík lætur verðbólguna heita.

Í tíð viðreisnarstjórnarinnar voru framkvæmdar svipaðar gengisfellingar 1968, en almenn kauplækkun hefur sennilega verið heldur meiri þá en nú, en það er ekki neinu sem nemur. Ástandið í atvinnumálum var líka annað þá en nú. 1968 var geysilegt atvinnuleysi og mörg þúsund verkamenn flýðu land vegna þess. Í dag virðast aftur á móti vera nokkuð sæmilegar atvinnuhorfur, ef maður lítur á yfirborðið, og er það fyrst og fremst að þakka fyrirsjáanlegri geysilegri aukningu þjóðartekna vegna hækkandi verðlags sjávarafurða á erlendum mörkuðum, loðnuverð hefur hækkað vegna aflabrests Perúmanna, einnig hafa orðið hækkanir á freðfiski og jafnvel saltfiski og ofan á þessar hækkanir er fyrirsjáanleg aukning á heildaraflamagninu frá því í fyrra. Það er því ekki nauðsynlegt fyrir auðvaldið að beita fyrir sig atvinnuleysi til að auka gróða sinn með lækkun launa eins og þá var gert. En í staðinn kemur nú gosið í Vestmannaeyjum og er það umsvifalaust notað til að hefja skefjalausa kjaraskerðingarárás á öreigastéttina með viðaukaskatti og öðrum ráðstöfunum, sem lýst er hér að framan.

Þannig notar auðvaldið allar mögulegar og ómögulegar átyllur til að hefja skefjalausar árásir á laun verkalýðsins. Tilgangurinn er hinn sami í öllum auðvaldslöndum: þrengja skal kjör verkalýðsins til að gróði kapítalistanna megi vaxa í hlutfalli við lækkandi laun öreiganna.

## ORSAKIR FYRIR LAUNALÆKKUN.

Kapítalistarnir og fulltrúar þeirra á alþingi hafa ævinlega haldið því fram, að ástæðan fyrir hækkun vöruverðs (verðbólgu) væri "undangengin" launahækkun.
Ef vöruverðinu væri þannig hægt að stýra með laununum - ætti launalækkun að þýða samsvarandi vöruverðslækkun! En er þessu þannig varið? Nei, þvert á móti hækka vörurnar stöðugt og nú síðustu dagana með stöðugt meiri hraða, meðan launin lækka sífellt; umsamin vísitöluhækkun er ekki greidd, framkvæmdar tvær gengisfellingar á stuttum tíma, sem eru beinar launalækkanir, og skattar hækkaðir.
Það er því augljóst, að orsök verðbólgunnar er ekki að leita í hækkun launa. Orsakarinnar er að leita í sjálfum framleiðsluháttum auðvaldsþjóðfélagsins.

Í sókn auðmannanna eftir hámarksgróða og í samkeppni við aðra auðmenn neyðast þeir stöðugt til að endurbæta vélakost sinn með nýjum og afkastameiri vélum. T.d. er íslenzka auðvaldið að festa kaup á 39 skuttogurum af fullkomnustu gerð, sem veiða margfalt á við gömlu síðutogarana, auk þess sem þarf

Framhald á bls.6

Forsætisráðherra um efnahagsvandann á Alþingi:
Þessi ríkisstjórn lækkar ekki gengið

Krónan felld um 10,7%

Hækkun erlendrar mynta allt að 33,6% frá sumri 19[..]

Krónan felld [..]10% í gær

ÞRIÐJA GENGISLÆKKUN VINSTRI STJÓRNARINNAR

Álagningarprósenta [..]tsvara verði 11%

Boðskapur Ólafs Jóhannessonar á Alþingi í gær:
Skert vísitala – hækkun óbeinna skatta

Gengisfelling eðlileg
– segja forsvarsmenn atvinnulífsins

Kauphækkun frestað

Innfluttar vörur hækka um 5-7% að meðaltali

GENGISFELLINGAR OG UPPLAUSN

Áfengi og tóbak úr vísitölunni

KRÓNAN FELLUR ENN
Líklegast um 10% gengisfelling gagnvart öðrum gjaldmiðlum en dollar

## Stórsigur alþýðu Víetnam

Bandaríkin skuldbinda sig til að hætta öllum hernaðarlegum afskiptum af málum alþýðunnar í Indókína. Bandaríkin eru neydd til að viðurkenna, að Víetnam er eitt land, sem einungis hefur verið skipt til bráðabirgða og verður sameinað aftur. Bandaríkin neyðast til að viðurkenna, að í Suður-Víetnam eru til tvær stjórnir, tveir herir og þrenns konar pólitísk öfl (auk leppanna í Saigon og Bráðabirgðabyltingarstjórnarinnar - hlutlausu hóparnir). Aftur á móti viðurkenna Bandaríkin í reynd tilveru Bráðabirgðabyltingarstjórnarinnar í Suður-Víetnam.
Þetta eru mikilvægustu atriðin í samningunum um vopnahléð í Víetnam.

Þar með hefur víetnamska alþýðan unnið stóran og þýðingarmikinn sigur, stigið mikilvægt skref í frelsisbaráttunni og sýnt og sannað, að bandarísku heimsvaldasinnunum hefur ekki tekizt með hryðjuverkum sínum að brjóta niður baráttuvilja og sigurvissu alþýðunnar. Í höfuðatriðum eru skilyrðin í nýju samningunum þau sömu og USA og Norður-Víetnam sameinuðust um í Október '72, en bandarísku heimsvaldasinnarnir sviku síðan gróflega með því að bera fram nýjar kröfur og hefja ógnarsprengjuárásir sínar á Norður-Víetnam.

Vopnahléð er afleiðing af glæsilegum sigri alþýðu Víetnam á vígvellinum undanfarin ár.

Ekki einu sinni úr lofti tókst bandarísku heimsvaldasinnunum með öllum sínum tæknilegu yfirburðum að vinna nokkurn sigur. Sprengjuflugvélarnar hrundu niður yfir Hanoi sundurskotnar eftir hinar kraftmiklu og árangursríku loftvarnabyssur. Sprengjustríðið í Desember var hernaðarlega og pólitískt séð svo gjörsamlega misheppnað, að Bandaríkin neyddust til að viðurkenna ósigur sinn sem staðreynd.

En sé skyggnzt dýpra er vopnahléð ekki eingöngu árangur af hernaðarlegri og pólitískri þróun undanfarandi ára. Það er árangur af áratuga baráttu fyrir þjóðlegri frelsun - sigur fyrir markmið og baráttuaðferðir alþýðustríðsins. Það var engin venjulegur hefðbundinn her, sem hrakti USA á undanhald, heldur vopnuð alþýðan. Sameinuð undir forystu verkalýðsstéttarinnar og kommúnistaflokks hennar, pólitískt meðvituð og hervædd hefur alþýða Víetnams vísað veginn fyrir allar kúgaðar þjóðir, sem berjast fyrir frelsun undan heimsvaldastefnunni.

Í öllum heiminum fagna nú allir sannir vinir víetnömsku alþýðunnar ósigri bandarísku heimsvaldastefnunnar. En við gerum það fyllilega meðvituð um, að baráttunni er ekki lokið.

Nú er minni ástæða en nokkru sinni áður að falla fyrir væluhjali borgaranna um "frið og sættir" í Indókína. Hin afturhaldssama Thieuklíka situr ennþá við völd í hluta Suður-Víetnams. Hún er pólitískt séð kraftlítil og einangruð, en vígbúin af USA. Her hennar (starfslið og lögreglusveitir) telur meir en þrjár milljónir manna og flugherinn er einn af tæknilega bezt búnu flugherjum heims.
Thieu hafði þegar sýnt með orðum og gerðum fyrir vopnahléð, að hann ætlar ekki að viður-

frh. bls. 3

# Stéttabaráttan

Stéttabaráttan 2. tbl. 28. febrúar 1973.
Útgefandi: Kommúnistasamtökin m-l, Pósthólf 1357, Rvk.
Ritstj. og áb.m.: Hjálmtýr Heiðdal.
Prentað í Hafnarprent, Hafnarfirði.
(Næsta tbl. kemur út 29. apríl.)

# Leiðari

## Mikilvægustu lærdómar, sem draga má af Víetnamstríðinu

"ALÞÝÐA OKKAR BERST OG FÆRIR FÓRNIR - EKKI EINGÖNGU FYRIR EIGIN FRELSI OG SJÁLFSTÆÐI, HELDUR FYRIR SAMEIGINLEGU FRELSI OG SJÁLFSTÆÐI ALLRA ÞJÓÐA OG FYRIR FRIÐI Í HEIMINUM."
(Hó Chi Minh)

Alþýða Víetnam hefur nú með undirritun friðarsamninganna unnið áfangasigur á leið sinni til sósíalismans. Um leið og við samgleðjumst alþýðunni, sem miklar fórnir hefur orðið að færa í baráttu sinni við mesta herveldi heimssins, vitum við fullvel, að heimsvaldastefnan er ekki liðin undir lok og baráttunni ekki lokið. Þetta gerir alþýða Víetnam sér einnig ljóst og enn sem fyrr þarf hún á stuðningi okkar að halda.

Með undirritun samninganna hafa heimsvaldasinnarnir þó ekki gefið upp vonir sínar um áframhaldandi kúgun á alþýðunni í Suðaustur Asíu. Thailand má nú að heita bandarísk herstöð og enn halda bandarískar flugvélar uppi árásum á Laos.

En við þennan áfanga í baráttu alþýðunnar gegn heimsvaldastefnunni er mikilvægt að draga saman þá lærdóma, sem stríðið hefur veitt framsæknum öflum í heiminum.

Það atriði, sem hæst ber og kemur til með að hafa mest áhrif í bráð og lengd á baráttu öreiga og kúgaðra þjóða heimsins, er það fordæmi, sem alþýðan í Indókína hefur gefið, hún hefur sýnt, að alþýðan er ósigrandi hafi hún að vopni byltingarsinnaða fræðikenningu marxismans-lenínismans. Orð Maós Tsetungs: "óvinurinn rotnar með degi hverjum, en allt verður betra fyrir okkur" hafa sannazt í baráttu alþýðunnar í Indókína. Vopnuð fræðikenningu marxismans-lenínismans hefur alþýðan háð baráttu gegn mesta herveldi heims, hún hefur snúið vörn upp í sókn og gjörsigrað heimsvaldaher Bandaríkjanna og leppa þeirra.

Með sósíalískri skipulagningu hefur íbúum Norður-Víetnams tekizt að standast gjöreyðingartilraunir lofthers heimsvaldasinnanna og veita honum slík högg, að "hernaðarsérfræðingar" borgaranna hafa staðið agndofa. Undir forystu kommúnista hefur Þjóðfrelsisfylkingu Suður-Víetnams tekizt að lama landher USA, hvort sem þeir heita Grænhúfur eða landgönguliðar flotans (en þessar sveitir eru taldar úrvalskjarninn í landher USA). Leigumorðingjar hafa fengið að kenna á einbeittum vilja alþýðunnar. Eftir nokkurra ára baráttu var árangur alþýðustríðsins slíkur, að landher heimsvaldasinnanna var hruninn saman, hermennirnir lágu í eiturlyfjavímu og neituðu að berjast og generálarnir neyddust til þess að kalla herinn heim. Auðvitað var reynt að láta líta út sem hér væri hinn margbásúneraði "friðarvilji" heimsvaldasinnanna að verki. En bak við sjónarspilið var sannleikurinn: herinn hafði lotið í lægra haldi fyrir ósigrandi þjóðfrelsisöflum Indókína.

Þessar staðreyndir hafa þegar haft mikla þýðingu fyrir baráttuna gegn heimsvaldastefnunni í kúguðu löndunum, alls staðar veitir hið byltingarsinnaða fordæmi víetnamskrar alþýðu kúguðu fólki þrek til að berjast enn einbeittara fyrir lokasigrinum.

### LÆRDÓMAR ÍSLENZKU ÖREIGASTÉTTARINNAR.

Helzti lærdómur íslenzku öreigastéttarinnar er skilningurinn á því, að bezti stuðningur við baráttu kúguðu þjóðanna gegn heimsvaldastefnunni er að framfylgja alþjóðahyggju öreiganna í verki, þ.e.a.s. gera hreint fyrir sínum dyrum og steypa íslenzku auðvaldi og mola þannig einn hlekkinn í alþjóðlegri kúgunarkeðju auðvaldsins.

Íslenzka borgarastéttin hefur skipað sér í hóp kúgandi afla í heiminum eðli sínu samkvæmt. Með veru sinni í NATO hefur hún skipað sér á bekk með USA-heimsvaldasinnunum, nýlenduböðlum Portúgals og einræðisherrum Grikklands.

Íslenzk öreigastétt ber enga ábyrgð á því, að bandaríski herinn er hér, hann er hér eingöngu í þágu borgarastéttarinnar, bæði þeirrar íslenzku og bandarísku. "Baráttan" gegn heimsvaldastefnunni getur því aldrei verið raunhæf á þeim grundvelli,"að ríkisstjórn hinna vinnandi stétta fylgi málefnasamningnum" og reki herinn úr landi. Það eru draumórar að láta sér koma til hugar, að ríkisvald borgaranna framkvæmi einhverja þá aðgerð, sem standi gegn raunverulegum hagsmunum borgarastéttarinnar.

Höfuðspurningin í þessu máli er ekki um það, hvort herinn sé hér eða ekki, spurningin er um veruna í kúgunarbandalaginu NATO og það er vel ljóst, að í málefnasamningi "alþýðustjórnarinnar" er enga ógnun við aðild Íslands að NATO að finna.

Það er aðeins eitt afl á Íslandi, sem getur leyst af hendi það verkefni að brjóta heimsvaldastefnuna á bak aftur, innlenda sem erlenda, og það er verkalýðsstéttin. Og hún mun framkvæma það með sósíalísku byltingunni. Með sósíalísku byltingunni er öreigastéttin ekki aðeins að létta af sjálfri sér kúgun og arðráni, hún er einnig að gegna alþjóðlegri skyldu sinni við kúgað fólk hvarvetna í heiminum.

Margir hafa orðið til þess að reyna að fela þennan sannleika og hefur tilgangurinn ýmist verið sá að hylma yfir með glæpaverkum heimsvaldasinna eða afvegaleiða hreyfingar meðal öreiganna, sem gætu reynzt borgurunum hættulegar.

Mest áberandi hér á landi hefur Morgunblað borgaranna verið í stuðningi sínum við hernaðinn gegn alþýðu Indókína og mega menn minnast þeirra heiftarlegu árása á þá, sem ekki hafa verið tilbúnir að gleypa við lygum blaðsins. Mörg dæmi mætti nefna um iðju þeirra gegnum árin, en það nægir að minna á viðbrögð Morgunblaðsins, þegar heimsvaldasvíninu Rogers var vísað frá dyrum Árnagarðar.

Nú eftir að friðarsamningar hafa verið undirritaðir er fróðlegt að fylgjast með skrifum blaðsins, sem nú reynir að snúa blaðinu við og beinir orðum sínum til unga fólksins:

"Að vonum á unga fólkið erfitt með að skilja, að með því að berjast fyrir því að halda hershöfðingjunum við völd í Saigon, sem litla virðingu hafa sýnt lýðræðinu, séu Bandaríkin að berjast fyrir þeim hugsjónum sem þau hafa verið talin í fararbroddi fyrir." (Reykjavíkurbréf)

Hér hefur ritstjórinn hitt naglann á höfuðið, en barið á fingur sér um leið, ef svo mætti segja.

Hann bendir réttilega á, að USA-heimsvaldasinnarnir eru trúir "hugsjónum" sínum með því að halda fasistaklíkum við völd víða um heim (Grikkland, Spánn, Kambódía, Filippseyjar o.fl.). En því miður fyrir Morgunblaðið hefur stór hluti mannkyns (ungt fólk þar á meðal) ekki átt í erfiðleikum með að skilja þetta og það er Morgunblaðinu ljóst. Þess vegna koma skrif blaðsins ekki á óvart þeim, sem þekkja eðli þess. Lítum á eftirfarandi:

"Verkefni lýðræðissina nú og á næstu árum er að sýna ungu kynslóðinni fram á að þótt Víetnamstyrjöldin hafi verið í hróplegri mótsögn við siðgæðisvitund þess, er framtíðar þjóðfélagsins ekki að leita í þeim sósíalisma, sem kúgar, heftir og drepur."

Blaðið segir hér, að einmitt afhjúpunin á eðli auðvaldsskipulagsins og að heimsvaldastríð



séu afsprengi þess, sé það, sem breiða verður yfir "nú og á næstu árum". Þetta er herkvaðning borgarastéttarinnar; nú skal lagt til harðari atlögu gegn aukinni stéttvísi öreiganna. "Lýðræðissinnarnir" hafa þá þegar slegið til í útvarpi, almenningur hefur átt þess kost að undanförnu að fylgjast með hvernig saumað er að þeim fréttamönnum útvarpsins, sem ekki þykja nægilega trúir borgarastéttinni. Það skal ekki vitnast, að orsakir Víetnamstríðsins er sókn borgaranna eftir hámarksgróða og að slík stríð eru óhjákvæmileg á tímabili heimsvaldastefnunnar. Allt skal nú falla í ljúfa löð svipað og sagt var eftir heimsstyrjöldina fyrri, sem var háð "til að binda endi á öll stríð".

En ekki leið á löngu þar til að önnur uppskiptastyrjöld skall á og það töluvert ofsafengnari. Eins er það með stríð heimsvaldasinnanna gegn kúguðum þjóðum. Eftir að seinni heimsstyrjöldinni lauk hefur ekki liðið sá dagur, að heimsvaldasinnarnir hafi ekki einhvers staðar verið með morðtæki sín í gangi (sjá rammadálk). Stríð eru óhjákvæmileg á tíma heimsvaldastefnunnar.

### EN BORGARARNIR HAFA FLEIRI VOPN.

Auðvaldið á sér fleiri verjendur en þá, sem opinberlega eru kallaðir íhaldsmenn, og það eru þeir, sem kalla sig alþýðuvini og sósíalista og eru ekki hvað síðri í þjónustu sinni við húsbændur sína - auðvaldið. Öreigastéttin verður sérstaklega að vera á verði gegn þessum borgaratíkum, sem reyna að svíkja sig inn í raðir hennar. Hér erum við að ræða um "mannvinina" miklu, sem hafa slegið sig til riddara í nafni mannúðarinnar og þóttzt skera upp herör gegn heimsvaldastefnu og auðvaldi og þóttzt standa með alþýðunni í Indókína. Það eru "iðnbyltingarmenn" Alþýðubandalagsins, sem þannig haga sér. Þeirra þénusta er öll við auðvaldið íslenzka og í dag eru þeir helztu forsvarsmenn fyrir stéttasamvinnu, sem aldrei getur verið öðrum í hag en auðvaldsherrunum. Vera þeirra í ríkisstjórninni þýðir m.a. það, að þeir eru fulltrúar og þjónar einokunarauðvaldsins, en það hefur úrslitavald á öllum sviðum hins borgaralega þjóðfélags. Enda tala verkin: Iðnbylting, útfærsla einokunarsvæðis borgaranna (landhelgin), aukin einokun í framleiðslunni o.fl.

Málgagn Alþýðubandalagsins, Þjóðviljinn, framkvæmir engu minni blekkingar en Morgunblaðið, þó á annan veg sé.

Tilgangur blaðsins er að hindra vaxandi stéttvísi meðal öreigastéttarinnar. Blaðið gerir það á þann hátt, að það hefur reynt að fela forystuhlutverk öreigastéttarinnar í Víetnam, það hefur aldrei gert grein fyrir byltingarsinnuðu fræðikenningunni, sem leiðir allt starf Þjóðfrelsisfylkingarinnar. Og síðast en ekki síst hefur blaðið talað um stríðið sem lífsvistarstríð, stríð USA gegn náttúrunni, en að stríðið sé árásarstríð heimsvaldasinna háð í þeim tilgangi að sölsa undir sig auðlindir Suðaustur-Asíu getur ekki að líta á síðum Þjóðviljans.

### TAKTÍK "ALÞÝÐUSTJÓRNARINNAR".

Sú borgaralega ríkisstjórn, sem nú situr og kallar sig alþýðustjórn, framkvæmir ýmsa fimleika í utanríkismálum til þess að reyna að öðlast "róttækt" yfirbragð. Hún reynir eftir megni að draga til sín það unga fólk, sem á einn eða annan hátt hefur vaknað til vitundar um mótsagnir auðvaldsskipulagsins, sérlega eru Alþýðubandalagsmennirnir snarir í þeim málum. "Stefnubreytingin" frá tímum "viðreisnarstjórnarinnar" er þó engin í raun. Enn er í gildi viðurkenning á fasistastjórn Thieus-leppklíkunnar í Saigon og ríkisstjórnin hefur ekki ætlað sér að viðurkenna Bráðabirgðabyltingarstjórnina í Suður-Víetnam. Enn telja borgararnir sér bezt borgið í hernaðarbandalagi heimsvaldasinnanna - NATO. Viðurkenningin á Norður-Víetnam er aðeins taktísk aðgerð og fram komin vegna snarpra umskipta í heimsmálum nú, þegar hallar undan fæti hjá USA-heimsvaldasinnunum, sem frá lokum seinni heimsstyrjaldarinnar hafa borið ægishjálm yfir önnur heimsvaldalönd. Nú eru óðum að breytast valdahlutföllin milli heimsveldanna og ber að skoða málefnasamning "alþýðustjórnarinnar" í því ljósi. Hann segir okkur eingöngu, að borgararnir telja USA ekki lengur vera þann bakhjarl, sem verið hefur, m.a. þess vegna tala þeir um að herinn skuli fara.

Hin blindu öfl, sem fylkja sér í raðir herstöðvaandstæðinga, verða, sökum blindu sinnar á stéttareðli ríkisvaldsins, dyggir stuðningsmenn íslenzku borgarastéttarinnar. Það gerist

FRAMHALD Á NÆSTU SÍÐU

## ÁRÁSARSTRÍÐ HEIMSVALDASINNA

Eftirfarandi er sýnishorn af árásarstríðum heimsvaldastefnunnar, sem hafa geisað á tímabilinu frá 1945 til dagsins í dag eða geisa enn :

Frakkland gegn Laos og Kambódíu (1945-1954)
Holland gegn Indónesíu (1945-1949)
Frakkland gegn Víetnam (1946-1954)
England gegn Oman og Aden (1946-)
Frakkland gegn Madagaskar (1947)
Ísrael með USA, England og Frakkland að bakhjarli gegn Palestínu (1948-)
USA gegn þjóðfrelsishreyfingunni á Filippseyjum (1948-1951)
England gegn Malaya (1948-1954)
Suður-Afríka gegn Nambibíu (1949)
USA gegn Norður-Kóreu (1950-1953)
England gegn Kenya (1952-1957)
USA gegn Víetnam (1952-)
USA gegn Guatemala (1954)
Frakkland gegn Alsír (1954-1962)
USA gegn Laos (1954-)
England gegn Kýpur (1955-1959)
Frakkland gegn Túnis (1956-1958)
England, Frakkland og Ísrael gegn Egyptalandi (1956)
USA og England gegn Líbanon og Jórdaníu (1958)
USA gegn Kína (Taiwansundið) (1958)
USA gegn Panama (1959)
England gegn NýjaSjálandi (1959)
Mörg heimsvaldalönd gegn Kongó (1960-1962)
USA gegn Kúbu (1961)
Portúgal gegn Angóla (1961-)
Portúgal gegn Guinea-Bissau (1962-)
USA gegn Kúbu (1962)
USA gegn Panama (1964)
Portúgal gegn Mósambique (1964-)
USA gegn Dómíníska Lýðveldinu (1965)
Ísrael gegn Arabalöndunum (1967)
USA gegn Kambódíu (1971-)
Frakkland gegn Tschad (1970-)

# Orðabók öreigans

Fram hefur komið gagnrýni á Orðabók Öreigans (áður Orðabók Kommúnistans), sem birtist fyrst í 4. tbl. Stéttabaráttunnar '72, fyrir það, að hún væri of "afstrakt" (sértæk) og þannig ekki til þess fallin að auðvelda mönnum lifandi skilning á hugtökum marxismans-lenínismans.

Miklar umræður áttu sér stað um gildi orðabókarinnar og tilgang og m.a. þess vegna féll hún niður í síðasta tbl.

Við höfum þó talið ofangreinda gagnrýni ekki ráða neinum úrslitum um tilgang orðabókarinnar og munum halda áfram að birta skilgreiningar á hugtökum marxismans-lenínismans í þessum dálki, - enda hafa hinar sérstaklega góðu undirtektir við orðabókina einmitt sýnt og sannað, að hún á fullan rétt á sér, því margir hafa lýst yfir þeirri skoðun sinni, að orðabókin sé þeim mjög hjálpleg í að öðlast betri skilning á efni blaðsins.

Okkur þótti rétt að breyta nafni þessa dálks til þess að undirstrika stéttareðli fræðikenningarinnar, þ.e.a.s. að marxisminn-lenínisminn er hugmyndafræði öreigastéttarinnar og getur aðeins staðið í þjónustu hennar.

STÉTTVÍSI: Stéttvís verkamaður er meðvitaður um stéttir auðvaldsskipulagsins, og arðránshlutskipti stéttar sinnar. Hann hefur aflað sér skilnings á sögulegu hlutverki verkalýðsstéttarinnar. Hann heyr vísvitandi baráttu, pólitíska og efnahagslega og fremsta leiðarljós hans í þeirri baráttu er marxisminn-lenínisminn-hugsun Maós Tsetungs. Skipuleggjandi og samtengjari þessarar baráttu getur aðeins verið kjarni og brjóstfylking verkalýðsstéttarinnar, kommúníski byltingarflokkurinn.

STÉTTABARÁTTA: "Hin ritaða saga mannfélagsins hefur fram að þessu verið saga um stéttabaráttu. Frjálsir menn og þrælar, patrisíar og plebejar, meistarar og sveinar, í stuttu máli: kúgarar og kúgaðir hafa jafnan staðið á öndverðum meiði og háð látlausa baráttu ýmist leynt eða ljóst. Þessari baráttu hefur jafnan lokið á þá lund, að þjóðfélagið hefur tekið hamskiptum í byltingu eða báðar stéttir liðið undir lok". (Marx/Engels, Kommúnistaávarpið).

Á Íslandi stendur þessi barátta í dag á milli hinnar kúgandi borgarastéttar og hinnar kúguðu verkalýðsstéttar. Þessari baráttu mun ljúka á þá lund, að, íslenzkir öreigar undir forystu kommúnistaflokks síns og með fræðikenningu marxismans-lenínismans að leiðarljósi, munu taka öll völd í þjóðfélaginu í vopnaðri byltingu og koma á fót alræði sínu og hefja uppbyggingu sósíalismans á Íslandi. En stéttabaráttunni lýkur ekki við valdatöku öreigastéttarinnar. Tímabilið milli auðvaldsþjóðfélagsins og hins kommúníska sameignarskipulags, alræðis öreiganna, er skarpasta form stéttabaráttunnar og þar eru stéttirnar að fullu afmáðar, og hið stéttlausa þjóðfélag kommúnismans tekur við.

SÓSÍALISMI: Tímabilið milli auðvaldsskipulags og hins stéttlausa kommúníska þjóðfélags, þegar öreigastéttin hefur tekið öll völd, en ennþá eimir eftir af hefðum og erfðum auðvaldsþjóðfélagsins. Þetta er hið fyrra og lægra stig kommúnismans, þegar stéttirnar hafa verið afnumdar í framleiðslunni, en baráttan fyrir kommúnískri framleiðslu er óaflátanlega háð. Þegar einkaeignin hefur verið afnumin og samfélagsleg sameign hefur tekið við, þegar baráttan gegn smáframleiðslunni, sem í sífellu fæðir af sér hugsanagang og einstaklingshyggju auðvaldsþjóðfélagsins, og baráttan gegn hefðum og venjum auðvaldsþjóðfélagsins og leifum pólitískrar spillingar þess, er háð undir leiðsögn hins kommúníska byltingarflokks og alræðis öreiganna. Ríki verkalýðsins, alræði öreiganna, þjónar þeim tilgangi að halda niðri borgarastéttinni, sem ekki unir hlutskipti sínu og heyr nú hatramma baráttu fyrir endurheimtingu arðránsaðstöðu sinnar, með öllum ráðum, að verja landið gegn auðvaldsheiminum umhverfis og að leiða hina sósíalísku uppbyggingu framleiðslunnar.

KOMMÚNISMI: Hið æðra og seinna stig sameignarþjóðfélagsins, þegar stéttirnar hafa að fullu verið afnumdar og ríkisvaldið hefur að fullu dáið út. Um þetta segir Marx: "Seinna á hinu æðra stigi sameignarþjóðfélagsins eftir að þrældómseðli vinnunnar hefur verið létt af einstaklingum og móthverfan milli líkamlegrar og andlegrar vinnu er þar með horfin úr sögunni, verður öldin önnur. Þá verður vinnan ekki lengur einungis ráðstöfun til að halda í sér lífinu, heldur verður hún sjálf óhjákvæmilegasta þörf lífsins. Það er ekki fyrr en einstaklingarnir hafa þroskað hæfileika sína á öllum sviðum, framleiðsluöflin vaxa að sama skapi og allir gosbrunnar hinna samfélagslegu auæfa flóa yfir barma sína, að unnt verður að víkka sjóndeildarhring hins borgaralega réttar og þjóðfélagið getur letrað á fána sinn: Hver og einn vinnur það, sem hann er hæfur til, og fær í sinn hlut það, sem þarfir hans krefjast".

á þann hátt, að þau hrópa "herinn burt", en halda síðan kjafti. Ekki orð um íslenzka auðvaldið, ekki orð um arðránið og kúgunina á íslenzkum verkalýð, ekki orð um forystuhlutverk verkalýðsins í baráttunni gegn heimsvaldastefnunni, ekki orð um að ríkisstjórn í auðvaldsskipulagi er og verður ætíð ríkisstjórn borgarastéttarinnar, hvaða meðul, sem hún notar til þess að hylja það.
Með samfylkingu sinni í Víetnammálinu með fulltrúum auðvaldsins (Alþýðubandalagið, "Frjálslyndir" o.s.frv.), svipað og var á gamlársdag, eru herstöðvarandstæðingar, Víetnamnefndin, Fylkingin o.fl. að hindra það, að kjarni málsins komi í ljós.

Það verður að vera öllum sönnum and-heimsvaldasinnum ljóst, að allt starf, sem styður við blekkingartilraunir borgaranna, eru svik við íslenzkan verkalýð, erlendan verkalýð, kúgaðar þjóðir, baráttu alþýðunnar í Indókína - öll framsækin öfl - og vinnur gegn hagsmunum öreiganna. Heimur án auðvalds er heimur án styrjalda. Það er því höfuðskylda þeirra, sem vilja raunverulega styðja baráttu kúguðu þjóðanna gegn heimsvaldastefnunni, að afhjúpa eðli auðvaldsins og vinna að því að steypa "eigin" borgarastétt, því hún er fulltrúi fyrir nákvæmlega sama kerfi kúgunar og arðráns alls staðar, - eða með orðum Leníns:

> "Alþjóðahyggja í verki getur aðeins verið ein og engin önnur: nefnilega að starfa af fórnfýsi fyrir byltingarbaráttuna í eigin landi ásamt að styðja (með áróðri, stuðningsyfirlýsingum og efnislega) sömu baráttu, sömu línu - og aðeins hana - í öllum löndum án undantekningar."

KSML starfa samkvæmt þessu. Í hverju máli bendum við á byltingarsinnaðan valkost verkalýðsins og stillum honum upp gegn afturhaldsstefnu smáborgaralegu sósíalistanna.

BERJUMST GEGN BLEKKINGUM HENTISTEFNUSÓSÍALISTANNA!

MEÐ BARÁTTU OKKAR HÉR - STÉTT GEGN STÉTT - STYÐJUM VIÐ ALÞÝÐU VÍETNAM!

# Víetnamsöfnun KSML - þáttur í alþjóðahyggju öreiganna

Alþýða Víetnam hefur með baráttu sinni unnið stórsigur á bandarísku heimsvaldastefnunni og með undirskrift friðarsamkomulagsins urðu bandarísku heimsvaldasinnarnir formlega að viðurkenna ósigur sinn. Það, að samið hefur verið um vopnahlé nú í Víetnam og að USA hefur neyðst til að fara burt með heri sína, þýðir þó engan veginn að frelsisstríði víetnömsku alþýðunnar sé lokið.

Heimsvaldasinnarnir eru þekktir fyrir að brjóta gefin loforð (fjórir Bandaríkjaforsetar hafa í nafni loforðs um frið í Víetnam aukið stríðsrekstur bandarísku heimsvaldastefnunnar þar og aukið vígbúnað leppstjórnarinnar í Saigon jafnframt því sem þeir hafa að engu haft Genfarsáttmálana frá 1954 og 1962) og enn hafa landsvæðin, sem nú eru í höndum fasistastjórnar Thieus, ekki verið frelsuð. Varanlegur friður verður fyrst mögulegur, þegar algjör sigur hefur verið unninn á Saigon-klíkunni og allir hlutar Suður-Víetnams verið frelsaðir og sameinaðir hinu sósíalíska Alþýðulýðveldi Víetnam. Í ljósi þessa bakgrunns og þeirrar staðreyndar, að heimsvaldastefnunni hefur ekki verið útrýmt af jarðarkringlunni, þrátt fyrir að bandarískur hluti hennar hafi beðið pólitískt, hernaðarlegt og efnahagslegt afhroð í Indókína, verðum við að skoða mikilvægi stuðningsstarfs íslenzkrar verkalýðsstéttar við alþýðu Víetnam á grundvelli alþjóðahyggju öreiganna. Við munum gera skyldu okkar til þess að heimsvaldastefnunni muni ekki takazt að fela illdæðisáform framtíðarinnar á bak við hjal um "frið í heiminum í dag".

**Peningar til Víetnam fara í uppbyggingu sósíalismans - mestur hluti peninga Vestmannaeyjasöfnunarinnar fer í vasa borgaranna.**

Víetnamsöfnun KSML hófst um miðjan janúar. Sölumenn Stéttabaráttunnar höfðu með sér þar til gerða söfnunarbauka við sölu á Stéttabaráttunni á götum Reykjavíkur og einnig var gengið í hús á Reykjavíkur- og Selfosssvæðinu og safnað. Strax fyrstu dagana söfnuðust um 13.000.oo kr. Söfnunin mun halda áfram og taka sölumenn Stéttabaráttunnar á móti framlögum. Einnig er hægt að senda peninga í ábyrgðarpósti á pósthólf samtakanna nr. 1357 í Reykjavík, merkt "Víetnamsöfnunin". Peningarnir verða sendir til upplýsingaskrifstofu Bráðabirgðabyltingarstjórnar Suður-Víetnams í Osló og þaðan fara þeir beint til uppbyggingar í hinu sósíalíska Alþýðulýðveldi Víetnam.

Borið hefur á því, að afturhaldssinnar hafa notfært sér atburðina í Vestmannaeyjum sem yfirskyn til að veitast að sölumönnum Stéttabaráttunnar og ráðizt gegn pólitík KSML og stuðningsaðgerðum okkar við Þjóðfrelsisfylkinguna. Þessir fasistar hafa séð einstakt tækifæri í Vestmannaeyjasöfnuninni til að dulbúa afturhaldssamar árásir á alþjóðahyggju öreiganna, sem við færum út með starfi okkar.

Ekkert var borgarastéttinni kærara en náttúruhamfarirnar í Eyjum. Hafa borgararnir notfært sér þær sem tæki til að stórauka árásir sínar á kjör verkalýðsstéttarinnar og til að ausa yfir verkalýðinn hugmyndum fasismans um stéttasamvinnu á öllum sviðum auðvaldsþjóðfélagsins. Nú á að snúa bökum saman -stétt með stétt- vegna hamfaranna í Eyjum. Íslenzkir verkamenn eiga að þræla og puða og svo eiga þeir að halda kjafti og trúa öllu því, sem sagt er í sjónvarpinu.



Harmkvæli borgaranna um eyðileggingu á verðmætum "fólksins" í Eyjum er áróður þeirra um að verkalýðsstétt landsins skuli borga í beinhörðum peningum þann fyrirhugaða gróða, sem þeir ætluðu að mjólka úr verkafólki í Eyjum og annars staðar frá. Þeir peningar, sem komið hafa í Vestmannaeyjasöfnunina, verða notaðir til "endurreisnar atvinnulífsins", en það þýðir, að borgararnir fá reiðufé til að leggja í ný framleiðslutæki, sem notuð verða til að arðræna verkafólkið sem vinnur við þau enn meir en áður. Það er ekkert nýtt, að aðilar eins og Rauði Krossinn safni fé til að gefa beint í vasa kapítalistanna. Hinn alþjóðlegi Rauði Kross hefur gefið fé beint í vasa Saigon-klíkunnar í nafni mannkærleika og á þann hátt verið aðili að því að hreint og beint auka og draga stríðið í Víetnam á langinn.
Kveinstafi borgaranna og krókódílstár á að "lækna" með peningum í Vestmannaeyjasöfnunina, en verkalýðurinn frá Eyjum á að draga fram lífið á umhyggju ættmenna og nokkrum sálaraurum, sem kastað er niður af borðbrún auðvaldsins. Þannig eru atburðirnir í Eyjum og Vestmannaeyjasöfnunin notuð af borgarastéttinni til að velta hinni sívaxandi kreppu auðvaldsins yfir á herðar öreiganna. Gegn þessum árásum höfum við, stéttvísir verkakarlar og -konur, ekkert að setja fram nema okkur sjálf og samtök okkar - KSML.
Gegn peningasöfnun kapítalistanna setjum við peningasöfnun öreiganna: baráttusjóð KSML til uppbyggingar byltingarhreyfingarinnar á Íslandi og Víetnamsöfnunina til uppbyggingar sósíalismans í Víetnam.

**Alþjóðahyggja öreiganna í verki er að framkvæma sósíalíska byltingu í "eigin" landi.**

Alþjóðahyggja öreiganna í verki er að skipuleggja sig í kommúnistaflokk og framkvæma byltingu í eigin landi. Það er einnig alþjóðahyggja öreiganna í verki að styðja byltingarbaráttu öreiga annarra auðvaldslanda og kúgaðra þjóða með áróðri, stuðningsyfirlýsingum og efnislega. Söfnun KSML fyrir Þjóðfrelsisfylkinguna í Suður-Víetnam er ekki aðeins efnislegur stuðningur, heldur lýsum við um leið yfir skilyrðislausum stuðningi okkar við baráttu alþýðu Víetnam gegn USA-heimsvaldasinnunum og leppstjórn þeirra í Saigon. Við setjum um leið fram, að barátta okkar hér á Íslandi í dag er -stétt gegn stétt- og hvetjum alla verkamenn og aðra byltingarsinna til að skipuleggja sig í einu byltingarsinnuðu samtökin, sem eru hér, KSML.
Við hvetjum alla verkamenn og aðra byltingarsinna til að hafa samband við sölumenn Stéttabaráttunnar, sem taka á móti framlögum til Þjóðfrelsisfylkingarinnar. Ræðið árásarstríð bandarísku heimsvaldastefnunnar í Víetnam við vinnufélaga ykkar á vinnustöðunum og hver bezti stuðningur við Víetnam er út frá byltingarsinnaðri pólitík KSML.
Stígum skrefið til fulls!
Byggjum kommúnistaflokk, sem er fær um að leiða okkur til sigurs í valdbyltingu öreiganna gegn hinni drottnandi borgarastétt Íslands!
Það er sönn alþjóðahyggja öreiganna í verki!

## Síðustu fréttir af söfnuninni:

Í þann veginn er við vorum að ljúka við að setja upp þetta tölublað Stéttabaráttunnar, bárust okkur þær fréttir frá Neskaupsstað, að þar hefðu safnazt í Víetnam-söfnun KSML rúmar átta þúsund krónur.
Þetta er okkur öllum hvatning til að standa sem bezt að söfnuninni og sýna þannig skilyrðislausan stuðning okkar við þjóðfrelsis- og byltingarbaráttu Víetnama.

## KSML úti á landi

Með vaxandi starfi KSML og útbreiðslu um landið er okkur mögulegt nú þegar að veita upplýsingar um starf fyrir KSML eða umboðssölu á útgáfuefni samtakanna á nokkrum stöðum úti á landi:
NESKAUPSTAÐUR: Þar er um að ræða skipulagt áróðursstarf og námsstarf og fulltrúi KSML þar er: Sigurður Jón Ólafsson, Heimavist Gagnfræðaskólans, P.O. Box 26.

AKUREYRI: Þar er um að ræða skipulagt starf fyrir KSML, sölu o.þ.h.
Hafið samband við fulltrúa KSML: Guðmund Ármann Sigurjónsson, Þórunnarstræti 135, P.O. Box 115.

SIGLUFJÖRÐUR: Umboðsmaður Stéttabaráttunnar og annars prentaðs máls samtakanna: Óskar Garibaldason, Hvanneyrarbraut 25.

SELFOSS: Umboðsmaður fyrir prentað mál KSML: Jóhannes Gunnarsson, Austurvegi 65.

ESKIFJÖRÐUR: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML: Elías Kristinsson, Lambeyrarbraut 10.

## Framhald af forsíðu... Stórsigrar alþýðu Víetnam

kenna grundvöll þess. Ákvæði og reglur samkomulagsins kveða á um að hindra skuli öll afskipti af pólitískri starfsemi og lýðræðisleg réttindi verði tryggð, svo sameinað Víetnam verði aftur veruleiki. En Thieu setur nú á fót ógnarstjórn á þeim svæðum, sem her hans ræður yfir. Stjórn þessi á enga sína líka í heiminum. Hún reynir að brjóta niður alla mótspyrnu alþýðunnar, drepur eða fangelsar alla pólitíska foringja hennar. Thieu lýsir yfir því, að hann ætli aldrei að vinna með kommúnistum og að hann muni aldrei vinna að sameiningu Víetnams. Eini tilgangur Thieus er að viðhalda herraveldi heimsvaldastefnunnar og fasismans í suðurhluta Víetnams.

Í sjónvarpsviðtali lýsti Nixon yfir, að stjórn hans myndi halda áfram stuðningi sínum við fasistastjórn Thieus. Þetta sannar, að USA reynir að viðhalda heimsvaldastefnunni í Indókína. Vissulega fullyrðir Nixon, að stuðningi hans verði framfylgt samkvæmt "skilyrðunum í friðarsáttmálanum", sem útilokar hernaðarleg afskipti. En það er engin ástæða til að ætla, að bandarísku heimsvaldasinnarnir virði þann samning, sem þeir hafa nú undirritað.
Þeir rufu Genfarsáttmálann frá 1954.
Þeir hafa rofið hundruð samninga alls staðar í heiminum, eingöngu til þess að standa vörð um þann "rétt" sinn að arðræna og kúga alþýðuna og hindra frelsisbaráttu hennar.
Á flugbrautum í nágrenni Indókína standa bandarískar sprengjuflugvélar, tilbúnar til að fara í nýjar hryðjuverkaárásir. Fyrir utan strendur Víetnam siglir sjöundi floti Bandaríkjanna, tilbúinn til að láta vopnin tala að nýju.

**STRÍÐ ERU ÓHJÁKVÆMILEG Á SKEIÐI HEIMSVALDASTEFNUNNAR.**

Ennþá þarfnast alþýða Indókína stuðnings allra verkamanna og heiðarlegra and-heimsvaldasinna. Nú er þetta mikilvægara en nokkru sinni áður. Ef dregur úr stuðningi and-heimsvaldasinna þá fá amerísku heimsvaldasinnarnir tækifæri til að dylja ódæðisverk sín í framtíðinni bak við þagnarmúr. Ef þeim tekst það fá þeir tækifæri til að taka að nýju upp hryðjuverk sín á fölskum forsendum um að Þjóðfrelsisfylkingin ástundi "samningsbrot" - þetta geta þeir meðan heimurinn er svæfður af friðarblekkingu. Stuðningsbaráttan fyrir alþýðu Víetnam verður að halda áfram og aukast í náinni framtíð.

Samtímis verða þeir, sem hafa vaknað til pólitískra aðgerða vegna hryðjuverka bandarísku heimsvaldasinnanna, að draga réttu lærdómana af því, sem þeir hafa séð. Stríðið er ekki einangrað fyrirbæri í sögunni. Það er bara eitt í

FRAMHALD Á BLS. 7

**Vestmannaeyjar:**

# Eignum auðvaldsins bjargað fyrst Eigur verkalýðsins mæta afgangi

Náttúruhamfarirnar í Vestmannaeyjum hafa sýnt okkur og sannað, að stjórnleysi borgaraþjóðfélagsins er yfirgripsmeira en það, sem að framleiðslunni lýtur. Hrófatildur borgaranna, sem valið hefur verið dulnefnið "Almannavarnir" hefur sýnt í verki, að þeirra starfssvið nær ekki lengra en að bjarga hagsmunum borgarastéttarinnar, en láta almenning sjá um sig sjálfan, eins og "flotaaðmíráll-inn" Pétur Sigurðsson hefur oftlega tekið fram opinberlega.
Skömmu eftir að "Almannavarnarráð" hafði útbúið áætlun um hvað gera skyldi í Eyjum og tveim smábæjum úti á landi, ef til náttúruhamfara kæmi, þá gaus í Eyjum. Við skulum veita því athygli, að þessar áætlanir "Almannavarnarráðs" eru þær fyrstu sinnar tegundar, sem fjalla um möguleikann á náttúruhamförum á Íslandi. Áður höfðu þeir leikið sér í nokkur ár að áætlunum um hvernig bjarga skyldi skinni borgarastéttarinnar, ef varpað yrði kjarnorkusprengju á herstöð heimsvaldasinnanna í Keflavík.
Rifjum nú upp gang björgunarstarfsins og þátt "Almannavarnanna" í þeim. Staðreyndirnar í málinu eru þær, að Eyjasjómenn stóðu einir og óstuddir að björgun almennings og komu "Almannavarnir" þar lítið nærri eins og vænta mátti. Þáttur ráðsins hefst fyrst fyrir alvöru eftir að þeir höfðu séð Eyjamönnum fyrir strætisvagnafari frá Þorlákshöfn til ættingja og vina í Reykjavík og nágrenni.

Nú mætti ætla, að "Almannavarnarráð" hjálpaði þeim, sem eftir voru í Eyjum, og hæfist handa um björgun húsmuna almennings. En vei þeim, sem því trúðu. Fyrst var hafizt handa um að bjarga fiski arðræningjanna, svo að tryggingafélögin þyrftu ekki að standa undir kostnaðinum við greiðslu tryggingafjár, en aflann er hægt að tryggja fyrir náttúruhamförum eftir að hann hefur komizt í hendur arðræningjanna.

Þegar útgerðin og tryggingafélögin sáu fram á, að hægt yrði að bjarga megninu af góssi útgerðarinnar - fiskinum, þá var hafizt handa um björgun á hinum áhættuhluta tryggingafélaganna - bílunum. Bílana er hægt að tryggja gegn náttúruhamförum. Hugsið ykkur hvernig forráðamönnum tryggingafélaganna og "Almannavarnarráðs" hefur orðið við, þegar þeim var hugsað til 800 bíla í Vestmannaeyjum, mörgum kaskótryggðum.
En hvað um fólkið? Hvað um húsin? Hvað um búslóðirnar?
Jú, fólk, hús og búslóðir getur almenningur ekki tryggt fyrir náttúruhamförum. Hvers vegna skyldu þá "Almannavarnir" hafa áhyggjur af því, sem ekki var áhættuhluti borgaranna eða tryggingafélaga kapítalistanna.

Þeir Vestmannaeyingar, sem höfðu tíma frá björgunarstarfi á persónulegum eigum sínum til þess að hlusta á atkvæðahungraða stjórnmálamenn notfæra sér ástandið í Eyjum til þess að leyna ástandi þrotabús borgarastjórnarinnar, hljóta að hafa orðið illir við.
Aldrei höfðu Vestmannaeyingar verið aðrar eins hetjur, aldrei eins úrræðagóðir, aldrei eins dugmiklir, aldrei eins góðir sjómenn, en á meðan sér "Almannavarnarráð" til þess að öskunni sé rutt af góssi borgarastéttarinnar, en heimili almennings eru látin sitja á hakanum.
Samúðarkveðjur bárust hvaðanæfa að, en hversu lengi skyldi vestmannaeysk alþýða geta lifað af samúðarkveðjum?

**ELDGOSIÐ Í EYJUM - ÁTYLLA FYRIR AUÐVALDIÐ TIL AÐ AUKA ARÐRÁNIÐ OG BREIÐA ÚT FASÍSKAR HUGMYNDIR**

Þegar í byrjun gossins fór áróðurinn að dynja í gegnum fjölmiðlana frá auðvaldinu um að nú skyldu Íslendingar standa saman - bak í bak - og taka á sig tap útgerðarinnar sameiginlega.

Flærðarlegir atvinnupólitíkusar samkjöftuðu upp í hvern annan um samábyrgð og einingu þjóðarinnar í erfiðleikum. Í þessum stéttasamvinnuáróðri hafa stéttsvikararnir innan "vinstri hreyfingarinnar" að sjálfsögðu ekki látið sitt eftir liggja og staðið vígreifastir í flokki við að prédika samstöðu verkamanna með kapítalistunum.

Og í hverju er þessi margumtalaða samstaða svo fólgin? Jú, einfaldlega að gróðatap borgaranna skuli bætt með því að fara í vasa verkalýðsins og herða arðránið. Verkamaðurinn skal herða sultarólina til bjargar auðvaldinu.

Þessir atburðir sanna, að, eins og ævinlega, á auðvaldið sér aðeins eina leið út úr erfiðleikum sínum, og hún er sú að velta þeim yfir á verkalýðsstéttina.

# VERKAMENN
# Skipuleggjum okkur - Byltingarsinnað námsstarf er höfuðverkefnið í dag!

Til þess að geta skilið stöðu sína í auðvaldsþjóðfélaginu verða verkamenn að þekkja vísindalega sósíalismann. Með námsstarfi í marxismanum-lenínismanum-hugsun Maós Tsetungs, sem er sameinuð reynsla öreigastéttarinnar í baráttu hennar gegn auðvaldinu, hafa KSML sett sér það mark að tengja verkalýðinn og sósíalismann. Síðan KFÍ leið hefur ekkert markvisst kommúnískt starf verið unnið á Íslandi fyrr en nú við tilkomu KSML. Hér fer á eftir viðtal við einn þeirra verkamanna, sem hafið hafa námsstarf hjá KSML - Þorleif Gunnlaugsson.



Sp.: Hver er ástæðan fyrir því, að þú ákvaðst að hefja námsstarf hjá KSML?

Sv.: Sem verkamaður kynntist ég ójöfnuðinum í þjóðfélaginu og sá fram á það, að verkamenn yrðu að bindast samtökum til að berjast raunhæft fyrir rétti sínum. Í þessu skyni kynnti ég mér stefnu og starfshætti Fylkingarinnar og Alþýðubandalagsins og umgekkst mikið fólk úr báðum þessum samtökum. Einnig var ég í samtökum herstöðvaandstæðinga.

Smátt og smátt sá ég fram á hvað þessi samtök voru einskis nýt og raunverulega afturhaldssöm. Ég sá fljótt, að Alþýðubandalagið þjónaði hagsmunum auðvaldsins og að sósíalisminn kemst ekki á með þingræðislegum aðferðum. Fylkinguna hef ég alltaf litið á sem skilgetið afkvæmi Alþýðubandalagsins og ég kunni ekki við það hugarfar þeirra félaga, sem ég þekkti og sem virðast vera í Fylkingunni til þess að geta sagzt vera róttækir. Samtök herstöðvaandstæðinga álít ég vera samsull úr Alþýðubandalaginu og Fylkingunni ásamt "róttækum" ungkrötum og ungum framsóknarmönnum.

Síðastliðið sumar heyrði ég fyrst getið um KHML. Ég las málgagn þeirra - Stéttabaráttuna, afstaða hreyfingarinnar og pólitíkin í blaðinu þótti mér góð. Í fyrstu hélt ég, að þessi hreyfing væri loftbóla í líkingu við Fylkinguna. Ég ákvað þó að fara í stuðningsstarf og sá fljótt, að þar var unnið markvisst kommúnískt starf í þágu verkalýðsins.

Sp.: Hvaða gagn hefur þú haft af náminu?

Sv.: Eftir fyrsta námsfundinn, þ.e. Kommúnistaávarpið, sá ég hversu námsstarfið var nauðsynlegt til að rífa fólk úr viðjum borgaralegrar hugmyndafræði, og alger forsenda þess að hægt sé að starfa á kommúnískum grundvelli. Með náminu hefur mér orðið ljóst stéttareðli þjóðfélagsins og sögulegt hlutverk öreigastéttarinnar.

Sp.: Hver eru kynni þín sem verkamanns af verkalýðsforystunni?

Sv.: Kynni mín af verkalýðsforystunni hafa engin verið, þar held ég að ég tali fyrir munn flestra verkamanna. Þessir skrifstofugúbbar tala sem minnst við verkamenn og maður kynnist þeim helzt í gegnum útvarp og aðra fjölmiðla. Þeir tala fjálglega um verkamenn og launahækkanir og jafnvel um sósíalisma, en þegar alvaran tekur við og verkamenn gerast órólegir og harðir, neyðast þeir til að skella á verkfalli, gera síðan alls konar undanþágur og reyna að gera hlutina sem bezta fyrir kapítalistana. Hvernig getur maður treyst þessum mönnum, sem eiga að vera fulltrúar láglaunafólks, en eru flestir hátekjumenn, sbr. Björn Jónsson (hann rekur prentsmiðju á Akureyri). Auk þess hafa flestir hátoppsmannanna ekki unnið verkamannavinnu í áraraðir.

Ég sá hvernig þetta var, en skildi ekki hvers vegna þetta er svona. Nú er ég farinn að skilja þetta betur. Þegar kapítalistarnir sáu, að ekki var hægt að bægja kröfum verkamanna frá með valdi, fóru þeir að vinna innan frá. Á þessu má sjá, að kjólfatamennirnir í verkalýðsforystunni eru hreint og beint mútuþegar auðvaldsins.

Sp.: Nú hafa sumir viljað kalla ríkisstjórnina stjórn hinna vinnandi stétta?

Sv.: Ríkisstjórnin er að mínu viti alveg eins og verkalýðsforystan, nema hvað þeir hafa afhjúpað sig enn betur. Hvað er annars gengisfellingin, skattahækkanir og stuldur úr vísitölunni annað en bein launalækkun fyrir verkalýðinn, í þjónustu auðvaldsins. Þeir þiggja sömu múturnar og verkalýðsforystan nema bara í enn ríkari mæli.

Sp.: Á hvaða hátt sameinarðu námið og starfið?

Sv.: Byltingarsinnað starf er óaðskiljanlegt náminu. Án starfsins væri námið innihaldslaust og ekkert nema orðin tóm, því að til að gera hina óbeinu þekkingu, sem fæst með náminu, að sannri þekkingu - þarf starf. Á sama hátt yrði starf án fræðilegs grundvallar óraunhæft fálm. Í dag er starfið fyrst og fremst fólgið í sölu málgagns samtakanna, að halda fram sífelldum áróðri fyrir þau og rökræða við verkamenn og aðra um kommúnismann.

Sp.: Hver telur þú vera mikilvægustu verkefni samtakanna nú?

Sv.: Námsstarfið og áróðurinn, sem höfðar til stéttvísasta hóps verkamanna eru tvímælalaust mikilvægustu verkefnin í dag. Námsstarfið verður ætíð að vera leiðandi þáttur starfsins, annars er hætt við að hentistefnan skjóti rótum innan samtakanna.

Næsta verkefni hlýtur svo að vera stofnun kommúnistaflokks, sem getur leitt byltingarbaráttu öreiganna, þegar byltingaraðstæður skapast, til sigurs í sósíalísku byltingunni.

Sp.: Að lokum, Þorleifur, hvað viltu ráðleggja íslenzkum verkamönnum í dag?

Sv.: Ég vil skora á alla verkamenn að hafa samband við KSML og skipuleggja sig í þágu sósíalismans, því einungis þannig er hægt að heyja raunhæfa verkalýðsbaráttu. Með starfi sínu hafa KSML sýnt og sannað, að þau eru samtök, sem verkamenn geta treyst sem öruggum málsvara þeirra í baráttunni gegn auðvaldinu.
Verkamenn, skipuleggið ykkur - byltingarsinnað námsstarf er höfuðverkefnið í dag!

## RAUÐI FÁNINN

RAUÐI FÁNINN - fræðilegt málgagn KSML, með samþykktum og ályktunum stofnþings KSML er nú komið í nýju upplagi.

Í inngangi ritsins segir svo um hlutverk þess: "Fremsta hlutverk blaðsins er að skóla félaga samtakanna og vera vettvangur fræðilegra skoðanaskipta, sem stefna að framþróun byltingarsinnuðu fræðikenningarinnar í þjónustu byltingarsinnaða starfsins."

Ennfremur: "Það er skoðun okkar, að umræður um fræðileg vandamál skuli fara fram fyrir opnum tjöldum. Við viljum ekki halda leyndum skoðunum okkar og afstöðu, jafnt í þeim málum, þar sem þær eru ekki fullmótaðar og þeim, sem enn hefur ekki náðst samstaða um.

Áætlað er að ritið komi út ársfjórðungslega og er áskriftarverð 150 kr., stuðningsáskrift 300 og baráttuáskrift 500 kr. á ári. Gerist áskrifendur og hafið samband við sölufólk Stéttabaráttunnar eða skrifið til KSML, Pósthólf 1357, Rvk.

## Námshringur KSML

1. fundur: Kommúnistaávarpið. (Marx/Engels Úrvalsrit I, bls. 26-53).
2. fundur: Hin díalektíska og sögulega efnishyggja. (J.V. Stalín, bæklingur KSML).
3. fundur: Um starfið og Hvaðan koma réttar hugmyndir. (Maó Tsetung Ritgerðir I, bls. 9-29 og Ritgerðir III).
4. fundur: Pólitíska hagfræðin I. (Laun, verð og gróði e. Marx ' Marx/Engels Úrvalsrit, bls. 156-201).
5. fundur: Pólitíska hagfræðin II. (Heimsvaldastefnan e. Lenín, valdir kaflar, Marx/Engels Úrvalsrit bls. 113-117 og valdar greinar úr Stéttabaráttunni).
6. fundur: Um ríkið. (Ríki og bylting e. Lenín, bls. 7-27, 45-71).
7. fundur: Ástandið í heiminum í dag. (Valdar greinar úr Rauða Fánanum og Stéttabaráttunni).
8. fundur: Um flokkinn. (Kaflinn Um flokkinn í Lenínismanum e. Stalín og síðasti kafli Sögu Ráðstjórnarríkjanna (B), væntanlegur bæklingur KSML).
9. fundur: Þróun auðvaldsins og verkalýðsstéttarinnar á Íslandi og stefnumál KSML. (Kaflar úr Rauða Fánanum).

Hafið samband við sölumenn Stéttabaráttunnar eða KSML, Skólastræti 3 B (kl. 5-7 á föstudögum) eða skrifið: KSML, Pósthólf 1357, Rvk.

# ALBANÍA: S

Æði oft erum við spurð um sósíalismann og um það, hvernig hann reynist í raunveruleikanum. Eitt svar við spurningunni er að sýna hvernig sósíalísku ríkin og í þessu tilfelli albanski verkalýðurinn undir forystu Verkalýðsflokks Albaníu byggir sósíalismann. Að læra af reynslu þeirra í baráttunni fyrir sósíalismanum er mjög mikilvægt fyrir alla byltingarmenn, bæði til að sýna fram á yfirburði sósíalismans yfir kapítalismanum í raunveruleikanum og til að læra af reynslu þeirra fyrir framtíðaruppbyggingu sósíalismans eftir sósíalísku byltinguna á Íslandi, þótt það fari að sjálfsögðu fram að einhverju leyti við aðrar aðstæður en þar ríktu, hvað þróun framleiðsluaflanna snertir.

# Albanía: Sósíaliskur áætlunarbúskapur

## ALBANÍA - STÓRFELLDAR BREYTINGAR Í SÓSÍALISMANUM.

Er Albanía öðlaðist þjóðfrelsi sitt 8. nóvember 1944 var hún einstaklega fátækt og snautt land, sem hafði verið undir erlendum kúgunarhæli og arðráni í aldaraðir. Á árunum fyrir síðari heimsstyrjöldina var Albanía eitt vanþróaðasta ríki í Evrópu og eymd hennar jókst enn við hernám fasista í styrjöldinni.
Í reyndinni var ekki til innlendur iðnaður, landbúnaðurinn vanþróaður og frumstæður, skortur á lífsnauðsynjum - mat, fatnaði og húsnæði ríkti, ólæsi var almennt (80%), sjúkdómar eins og malaría, berklar og sýfilis geisuðu.

Í styrjöldinn fórust tugir þúsunda af íbúum landsins. Albanski kommúnistaflokkurinn og albanska verkalýðsstéttin áttu við mikla erfiðleika að stríða frammi fyrir því verkefni að reisa landið úr rústum.
Forsendurnar fyrir stórkostlegum framförum í Albaníu og þróun landsins yfir í nýtízku iðnaðarland með blómstrandi landbúnaði eru völd verkamannanna og vinnandi bændanna í þjóðfélaginu. Í krafti þessara pólitísku valda öreigastéttarinnar hefur sósíalíska áætlunarbúskapnum verið hrundið í framkvæmd.

## FORSENDUR SÓSÍALÍSKA ÁÆTLUNARBÚSKAPARINS.

Mikilvægasta afleiðing byltingarinnar var sú, að hið lénsk-borgaralega ríkisvald var mölbrotið og ríkisvaldi öreiganna komið á fót. Nú mynduðust möguleikar fyrir verkalýðsstéttina og hina vinnandi alþýðu, sem í fyrsta sinn réði yfir örlögum sínum, að hefja uppbyggingu þjóðarbúsins, sem var í rústum eftir styrjöldina, og halda inn á braut sósíalismans. Tvö höfuðverkefni varð að leysa til að ná þessu markmiði. Annars vegar varð að koma á fót sósíalískum framleiðsluafstæðum, hins vegar að þróa framleiðsluöflin og skapa þannig efnislegar og tæknilegar forsendur sósíalismans.

Sósíalísku framleiðsluafstæðunum var komið á með þjóðnýtingu innlendrar og erlendrar einkaeignar á verksmiðjum, verkstæðum, flutningatækjum, bönkum og með því að stofna ríkiseinokun á útflutningi. Með jarðarendurbótum til sveitanna var jörðin falin þeim, sem yrktu hana. Síðar var samyrkjubúum komið á fót með frjálsri þátttöku bændanna.

Skref fyrir skref þróaðist þessi samfélagslegi eignarréttur með byggingu nýrra verksmiðja, með nýræktarframkvæmdum og notkun tækninnar í iðnaði og landbúnaði. Þannig skapaði Albanía hagfræðilega grundvöllinn fyrir sósíalismann. Með þeim aðgerðum, sem voru framkvæmdar eftir þjóðlegu frelsunina, voru myndaðar þær tvær myndir eignar, sem eru til í sósíalismanum. Ríkiseign undir umsjón ríkisvalds öreiganna, sem er æðra eignarform, og sameign, sem er tímabilsbundið eignarform þróunarskeiðs sósíalismans.

## SÓSÍALÍSKI EIGNARRÉTTURINN.

Ríkiseignin í Albaníu eru verksmiðjurnar, verkstæðin, námugröfturinn, skógarnir, samgöngukerfið, verzlunin, stór hluti af íbúðarbyggingunum o.s.frv. Sameign er t.d. jörðin, dráttardýrin, landbúnaðartólin, verzlanirnar og stjórnsýslubyggingarnar á samyrkjubúunum.

Báðar þessar myndir eignar eru í eðli sínu sósíalískar og koma í veg fyrir arðrán einnar manneskju á annarri. En samt sem áður er mismunur á þeim. Ríkiseignin er í höndum allrar verkalýðsstéttarinnar og alþýðunnar, en sameignin tilheyrir meðlimum samyrkjubúanna.

Í Albaníu er einnig til einkaeign. Verkamaður getur átt húsið, sem hann býr í, hann á húsgögn sín og heimilistæki, hann á tekjur sínar og það, sem hann sparar. Meðlimirnir í samyrkjubúunum geta einnig átt einkaeign í mynd smá jarðarskika, eigin kvikfjár o.s.frv.

Í upphafi var áætlunarbúskapurinn ekki fullkominn, þ.e.a.s. náði ekki til allra sviða búskaparins né þjóðfélagsins. Hagfræðilegu áætlanirnar frá 1944-46 leituðust við að koma af stað hagþróun í landinu með því að hefja námugröft og koma af stað smáiðnaðinum, sem var eyðilagður af erlendu hernámssinnunum í stríðinu, og koma upp flutningakerfi.

Fyrsta altæka þróunaráætlun ríkisins var gerð 1947. Áætluninni '48 tókst að fjórfalda iðnaða[r]framleiðsluna frá '38. 1948-50 var fyrsta 2ja ára áætlunin framkvæmd og '51-'56 fyrsta 5 á[ra] áætlunin. Iðnaðarþróuninni í 4. fimm ára áætl[un]uninn, sem átti samkvæmt útreikningum að vera lokið 1970, var algjörlega lokið 1968. Með þeirri áætlun var lokið við að koma upp samyrkjubúunum í landbúnaðinum.

## UPPBYGGING EFTIR ÁÆTLUN.

Hagfræðiáætlanirnar í Albaníu eru afleiðing af víðtækri sameiginlegri vinnu. Í auðvaldslandi beinist öll framleiðslan að því að mynda mestan hugsanlegan gróða og samkeppnin milli hinna ýmsu framleiðslugreina og milli auðmannanna innan greinanna veldur algjörlega stjórnlausri aukningu framleiðslunnar og leiðir til stjórnleysis í framleiðslunni. Sósíalíski áætlunarbúskapurinn beinist aftur á móti að því að mynda skipulagða framleiðslu, sem fullnægir þörfum alþýðunnar út frá skammstíma- og langtímasjónarmiðum. Þannig hefur þungaiðnaðurinn í Albaníu, t.d. málmiðnaðurinn og bygging raforkuvera, öðlazt mikla þýðingu í að tryggja framþróun landsins og byggja grunn undir alhliða iðnaðarþróun um leið og landbúnaðurinn hefur verið þróaður áfram til að fullnægja þörfinni fyrir meiri og betri lífsnauðsynjar.

Höfuðmarkmiðin með 5. fimm ára áætluninni (1971-75) eru:

- Að styrkja þjóðarbúskapinn með því að breyta Albaníu úr landbúnaðar-iðnaðarlandi í iðnvætt landbúnaðarland.
- Að styrkja enn betur sósíalíska hagkerfið.
- Að auka efnislega og menningarlega velmegun alþýðunnar, sérstaklega með því að minnka mismuninn milli borga og sveita.
- Að auka varnarstyrkleika landsins.

Á þessu tímabili mun iðnaðarframleiðslan aukast um 61-66% miðað við 1970. Sérstaklega mun þungaiðnaðurinn styrkjast. Landbúnaðarframleiðslan mun verða 65-69% meiri en '70 og fjárfestingin í byggingariðnaðinum mun á þessu tímabili verða jafnstór og heildarfjárfestingin '60-'70.

## ÞANNIG ER RAUNVERULEGT LÝÐRÆÐI Í VERKI.

Hagfræðilegu áætlanirnar eru unnar með miklu starfi í hagfræðilega grundvellinum. Áætlunarstjórn ríkisins rannsakar fyrst árangurinn af núverandi fimm ára áætlun og gerir á grundvelli þessarar rannsóknar og útreikninga um aðgang að vinnuafli, náttúruauðæfum o.fl. tillögu um nýja áætlun. Þessi tillaga er send út á vinnustaðina og til stofnananna, sem ræða almenn markmið áætlunarinnar og það takmark, sem ætlazt er til að einstakir vinnustaðir nái. Menn ræða hvort það takmark, sem sett er fram sé raunhæft og hvort allar nauðsynlegar forsendur séu fyrir hendi, og á grundvelli hinnar sérstöku þekkingar á aðstæðum í framleiðslunni setja verkamennirnir fram gagnrýni sína og tillögur og senda þær aftur til áætlunarnefndarinnar. Hún vinnur síðan úr öllum tillögum og gagnrýni, sem fram hafa komið, og setur fram nýja og betri tillögu, sem er send út til umræðu.

Þannig eru hagfræðiáætlanirnar þrautunnar og ræddar nákvæmlega af verkalýðsstéttinni í framleiðslunni. Ákveðin tilhneiging er til þess að verkamennirnir setji markið hærra en starfsmenn áætlunarnefndarinnar og stjórn fyrirtækjanna og hafa skýrari skilning á forsendunum í framleiðslunni og innra afli verkalýðsstéttarinnar.

Albanska verkalýðsstéttin veit, að ávextirnir af allri vinnu hennar í framleiðslunni falla henni í skaut og eru notaðir til að styrkja stöðu hennar og bæta lífsskilyrðin.

# Sósíalískt vígi í Evrópu

## Barátta Albanska Verkalýðsflokksins gegn endurskoðunarstefnunni

Í baráttunni gegn endurskoðunarstefnunni hefur Moskvufundurinn þýðingarmiklu hlutverki að gegna, því þar var framsókn endurskoðunarsinnanna frá 1956 stöðvuð af albönsku félögunum. Þar hélt Enver Hoxa ræðu þá, þar sem hann flettir miskunnarlaust ofan af sovézku endurskoðunarsinnunum fyrir framan fulltrúa frá 81 kommúnistaflokki á þessum sögufræga fundi í Nóvember 1960 og markaði hún þáttaskil í baráttunni gegn endurskoðunarsinnunum og er upphafið að hinni miklu deilu í upphafi áratugsins um hinar pólitísku línur fyrir alþjóðlegu kommúnistahreyfinguna.

### MOSKVUFUNDURINN: TÍMAMÓT Í BARÁTTUNNI GEGN ENDURSKOÐUNARSTEFNUNNI.

1960 höfðu línurnar í hinni alþjóðlegu kommúnistahreyfingu skýrst. Það hafði komið í ljós, að Kommúnistaflokkur Sovétríkjanna, sem verið hafði forystusveit öreigastéttarinnar í heiminum í 50 ár undir forystu Leníns og Stalíns hafði lent í höndum endurskoðunarsinna og áróðusmanna heimsvaldastefnunnar, sem notfærðu sér það, hve flokkurinn hafði veikzt, er margir beztu meðlimir hans létu lífið í baráttunni gegn fasismanum í síðari heimsstyrjöldinni. Þessir svikarar notuðu tækifærið eftir dauða Stalíns ´53 til að ná völdum með gagnbyltingarsinnuðu valdaráni, og höfðu þeir þá haft fjögur ár til að stunda moldvörpustarfsemi sína. Var nú kominn tími til að segja hingað og ekki lengra, og það féll fyrst og fremst í hlut albönsku kommúnistanna að gera það, enda höfðu þeir orðið einna áþreifanlegast fyrir barðinu á sósíalheimsvaldastefnu Krustsjov-klíkunnar.

### BARÁTTA ALBÖNSKU KOMMÚNISTANNA VIÐ KRUSTSJOV-KLÍKUNA.

Eftir að Krustsjov komst til valda leið ekki á löngu þar til Albanirnir tóku eftir afstöðubreytingu hjá Krustsjov-klíkunni til Albaníu og þá sérstaklega í sambandi við afstöðu þeirra til stórveldapólitíkur Júgóslava og tilrauna þeirra til að innlima Albaníu í Júgóslavíu. Krafðist Krustsjov, að Albanir endurskoðuðu afstöðu sína til Júgóslava og endurreistu nokkra svikara, sem höfðu rekið gagnbyltingarsinnaða línu, en Albanir neituðu að sjálfsögðu að verða við slíkum freklegum afskiptum af innanríkismálum Albaníu og brotum á reglum um samskipti kommúnistaflokka, sem tíðkazt höfðu.

Eftir 20. þingið ´56 hófu Albanir baráttu sína gegn afskræmingu Krustsjov-klíkunnar á marxismanum-lenínismanum og á 3. þingi VFA (Verkalýðsflokks Albaníu) ´56 var flokkurinn sameinaður í öllum þeim atriðum, sem snertu mótsetningarnar, og færði fram stefnufasta pólitík gegn afbökuninni á marxismanum-lenínismanum.

Er hugmyndafræðilega upplausnin innan herbúða sósíalismans, sem var afleiðing af fótfestu endurskoðunarsinnanna í kommúnistaflokkum þeirra, varð orsök gagnbyltingartilrauna í Póllandi og Ungverjalandi ´56, sló VFA því föstu, að eina leiðin til að hindra, að slíkir atburðir endurtækju sig, væri að styrkja alræði öreiganna og forystu flokksins og verja marxismann-lenínismann gegn sérhverri árás.



Börnin á barnaheimilinu í Durres dansa með haka og byssu, þjóðartákni Albaníu. Svona myndir setja ætíð hroll í hjarta borgaranna: Almáttugur minn, að setja byssur í hendurnar á litlu börnunum - hvílíkur hernaðalegur heilaþvottur. En börnin í Albaníu læra þegar á ungaaldri, að þau verða að verja hið sósíalíska föðurland sitt. Með því að byggja upp sósíalismann - með hakanum - og með því að verja sósíalismann gegn árásum heimsvaldasinnanna - með byssunni. Hvað læra börnin í auðvaldslöndunum? Að auðvaldskerfið og arðránið sé eina skynsamlega lausnin og að kommúnistarnir séu rauða hættan. Leikföng þeirra eru ótal mörg bandarísk sprengjuflugvélamódel, skriðdrekar og vélbyssur. Hvort er nú áróður og heilaþvottur?



Í sósíalismanum framfylgir verkalýðsstéttin sjálf alræði sínu. Það er ekki eingöngu um einn her að ræða -, sérhver verkamaður, öll vinnandi alþýðan er vopnuð til varnar sósíalismanum. Myndin er af kvennadeild úr Albanska Alþýðuvarnarliðinu.

### "ÞIÐ ALBANIR ERUÐ SKAPMIKLIR EINANGRUNARSINNAR."

Í apríl ´57 heimsótti nefnd frá VFA Sovétríkin til að ræða um hugmyndafræðilegu móthverfurnar við forystu sovézka kommúnistaflokksins og er Albanir gáfu ekkert eftir og afhjúpuðu Krustsjov-klíkuna og er hún sá, að hún var að verða undir í viðræðunum, lauk Krustsjov þeim með því að segja: "Þið Albanir eruð skapmiklir einangrunarsinnar". "Það er ómögulegt að semja við ykkur. Umræðunum er lokið!!" Þetta var fyrsti beini áreksturinn milli byltingarlínu VFA og endurskoðunarsinnuðu línu Krustsjov-klíkunnar.

Á fundi í Moskvu ´57 fengu VFA og Kommúnistaflokkur Kína það samþykkt og sett inn í yfirlýsingu fundarins, að aðalhættan í heimshreyfingu kommúnista væri endurskoðunarstefna nútímans. Innri orsök hennar væri borgaraleg áhrif, en ytri orsök þrýstingur heimsvaldastefnunnar. Því var fundarins 1960 beðið með eftirvæntingu.

### AFHJÚPUN ENVERS HOXA Á KRUSTSJOV-KLÍKUNNI Í MOSKVU 1960.

Ræða Hoxa var reikningsuppgjör við endurskoðunarsinnana, sem ekki hafði átt sinn líka. Í hverri spurningunni á fætur annarri fengu þeir hvert höggið á eftir öðru, og endurskoðunarstefna þeirra Krustsjovmanna var moluð sundur af byltingarsinnaðri línu VFA. Við skulum nú athuga hvernig þetta birtist í nokkrum spurningum.

A) Gegn tali Krústsjov-klíkunnar um heim "án vopna, án herja og án styrjalda"setti Hoxa fram hina Marxísku-Lenínísku skoðun: "Jafnvel nú, er bandaríska heimsvaldastefnan sér dómsdag sinn nálgast, þegar hún hefur fengið svo öfluga mótstöðumenn sem eru í herbúðum sósíalismans eins og samstaða þeirra með alþýðu heimsins sýnir, sameinar, skipuleggur og vopnar heimsvaldastefnan undir forystu USA árásaröfl sín. Sá sem ekki sér þetta er blindur. Sá sem sér þetta og dylur það er svikari í þjónustu heimsvaldastefnunnar". ( Enver Hoxa: Speech delivered at the meeting of 81 communist and workers parties in Moscow on November 16.1960 bls 18).

B) Um friðsamlegu sambúðina sagði hann. "Friðsamleg sambúð milli tveggja andstæðra þjóðfélagskerfa þýðir ekki eins og endurskoðunarsinnar nútímans halda fram, að við eigum að gefa stéttabaráttuna upp á bátinn. Þvert á móti verður stéttabaráttan að halda áfram: pólitíska og hugmyndafræðilega baráttan gegn borgaralegu og endurskoðunarsinnuðu hugmyndafræðinni, gegn heimsvaldastefnunni verður að vera enn harðari. Í stöðugri baráttu við að koma á fót lenínískri friðsamlegri sambúð, án þess að gefa nokkuð eftir gagnvart heimsvaldastefnunni, verðum við að styðja enn betur stéttabaráttuna í auðvaldslöndunum og eins þjóðlegu frelsishreyfingar nýlendanna og hálfnýlendanna."(sama rit bls 25)

C) Um byltingarsinnana segir hann; "Enn hefur engin alþýða, engin öreigastétt, engin kommúnisti eða verkalýðsflokkur náð völdum án blóðúthellinga og án valdbeitingar. Það er ekki rétt, sem nokkrir félagar halda fram, að þeir hafi náð völdum án blóðsúthellinga, vegna þess að þar gleyma þeir því, að sovéski herinn úthellti blóði fyrir þá í síðari heimsstyrjöldinni. Flokkur okkar er þeirrar skoðunar í þessu efni, að við ættum að vera undirbúnir og vel undirbúnir að fylgja báðum leiðum sérstaklega þeirri að ná völdum með valdbeitingu, vegna þess að ef við erum vel undirbúnir undir þann möguleika, verður sá fyrri líklegri til að verða að veruleika. Borgarastéttin getur leyft þér að syngja sálma, en eftir það greiðir hún þér fasísk högg á höfuðið og brýtur þig á bak aftur vegna þess, að þú hefur ekki þjálfað nauðsylega forystusveit til áhlaups, eða unnið ólöglegt starf eða þú hefur ekki undirbúið stað, sem þú getur verið óhultur og haldið áfram starfi eða undirbúið aðferðirnar, sem nota á til að berjast með. Við eigum að gera ráð fyrir þessum sorglega möguleika". ( sama rit bls 27 og 28)

D) Um Stalín: "VFA hefur þá skoðun, að það sé ekki rétt, eðlilegt eða marxíst að afmá nafn Stalíns og stórkostleg verk hans úr þessu söguskeiði eins og hefur verið gert í raunveruleikanum. Allir verða að slá skjaldborg um sönn og ódauðleg verk Stalíns, sá, sem gefst upp við að verja þau, er hentistefnumaður og huglaus aumingi" ( sama rit bls. 130 )



Alþjóðahyggja öreiganna í verki.
Kínverskur og albanskur verkamaður að starfi.

### VIÐBRÖGÐ KRUSTSJOV-KLÍKUNNAR VIÐ GAGNRÝNI ALBANÍU:

Marxistarnir-Lenínistarnir fengu góðan hljómgrunn meðal margra fulltrúa á Moskvuþinginu, en þrátt fyrir það tókst ekki að koma í veg fyrir, að endurskoðunarstefnan fengi fótfestu meðal meirihluta kommúnistaflokkanna, og að þeir úrkynjuðust og breyttust í sósíaldemókratísk samtök af sömu gerð og Alþýðubandalagið.

Krustsjov-klíkan reyndi allar hugsanlegar aðferðir til að brjóta gagnrýni Albana á bak aftur. Á fundum með Albönum voru þeim settir þeir kostir "Albanía verður að velja á milli þess að fylgja annað hvort 200 milljónum ( þ.e. Sovétr ) eða 650 milljónum ( þ.e. Alþýðulýðveldinu Kína )".

"Annað hvort verður hún að viðurkenna friðsamlegu sambúðina eða ein bandarísk kjarnorkusprengja verður næganleg til að gjöreyða Albaníu og íbúum hennar". Enginn, ekki einu sinni fulltrúar heimsvaldastefnunnar, höfðu sett fram slíka skilmála eða hótað Albaníu á þennan hátt.

Þegar sýnt var, að þessar hótanir báru engan árangur lýsti Krustsjov því yfir við kínversku fulltrúana: "Við höfum tapað Albaníu og þið hafið grætt hana" og síðar ásökuðu þeir Albani um að hafa "yfirgefið Marxismann-Lenínismann" og að þeir stunduðu "and-sovéska stefnu".

Þessum grófu ásökunum og þvingunum svaraði Enver Hoxa í ræðu sinni: "Hvað eru allar þessar gífulegu ásakanir, þessi meðferð á flokki okkar, landi okkar og alþýðu okkar, eins og þetta sé eitthvað, sem hægt er að kaupa og selja eða vinna og tapa eins og í spilum?". ( sama rit bls. 78 ). "Þið lítið á Albaníu eins og vöru, sem er tapað af einum og unnin af öðrum. Þeir tímar voru, að litið var á Albaníu sem verzlunarvöru, þegar ýmsir héldu að það væri undir þeim komið hvort Albanía væri til eða ekki, en sá tími leið undir lok, er hugmyndir marxismans-lenínismans sigruðu í landi voru". " Þið endurtakið sama hlutinn þegar þið ákveðið, að þið hafið "tapað" Albaníu og aðrir unnið hana." (sama rit bls. 79 ). Verkalýðsflokkur Albaníu leit á það sem skyldu sína að afhjúpa Krústsjov-klíkuna, og er þeir reyndu að þagga niðri Albönum sagði Hoxa: "láti enginn sér detta í hug, að vegna þess að Albanía sé smá og VFA sé smár, að Albanía og VFA framkvæmi það sem einhver segi, ef þeir álíti það sé ekki rétt". "Marxisminn-Leninisminn gefur okkur rétt til að segja það, sem okkur ber, og þessum rétti getur enginn svift okkur hvorki með pólitískum eða hagfræðilegum hótunum eða með ógnunum og ókvæðum sem kastað er í okkur".

Eftir þingið stóð ekki á endurskoðunarsinnunum að beita þeim þvingunum, sem þeir höfðu hótað. Þeir afnámu öll tengsl við Albaníu ; verzlunar-, tækni-, menningar-, vísindalega og diplómatísk. Þeir kölluðu í burt frá Albaníu alla sérfræðinga án fyrirvara, hættu við öll lán sem hafði verið lofað, hættu einnig vopnasendingum og ráku Albaníu úr Varsjárbandalaginu.

Þrátt fyrir allar þessar hótanir viku albanska þjóðin og albanski verkalýðsflokkurinn ekki fet frá gagnrýni sinni á endurskoðunar- og sósíalheimsvaldastefnu Sovétríkjanna.

### BARÁTTAN MILLI LÍNANNA ER STÉTTABARÁTTA.

VFA og KKF afhjúpuðu fyrir öllum heiðarlegum byltingarmönnum svik sovésku endurskoðunarsinnanna. Þeir sönnuðu, að spurningin stóð ekki um ólíkar skoðanir, sem eru til samhliða innan alþjóðlegu kommúnistahreyfingarinnar, heldur um tvær mismunandi línur og að baráttan á milli þeirra var milli hugmyndafræði öreiganna, marxismans-lenínismans, og borgaralegu hugmyndafræðinnar í mynd endurskoðunarstefnunnar. Þessi barátta er stéttabarátta, jafn ósættanleg og bein pólitísk stéttabarátta í sérhverju landi. Þannig bentu VFA og KKF nýju marxísku-lenínísku hreyfingunum, sem uxu fram á síðustu árum í flestum löndum, á leiðina.

Kommúnistasamtökin m-l eru hluti af þessarri hreyfingu, sem heyr baráttu gegn endurskoðunarstefnu og hentistefnu í eigin landi og berst gegn höfðingjum hentistefnunnar í Kreml, og er sú barátta liður í baráttu VFA og KKF. Þessari baráttu má ekki ljúka fyrr en endurskoðunarstefnan er upprætt og brotin á bak aftur.

# Mörkin skýrari innan „vinstri" hreyfingarinnar á Íslandi með degi hverjum

Á sama tíma og KSML vex styrkur með degi hverjum ríkir upplausn í herbúðum Fylkingarinnar og Alþýðubandalagið reynir í örvæntingu að viðhalda því litla trausti, sem enn finnst meðal verkamanna. Í harðnandi stéttabaráttu neyðast smáborgararnir út úr fylgsnum sínum og fram í dagsljósið með allar sínar "teoríur" um eilífleika auðvaldsþjóðfélagsins. Við kommúnistar fögnum stéttabaráttunni, því við vitum, að það er hin eina færa leið fyrir verkalýðsstéttina til þess að upphefja sig úr kúgun og skapa þjóðfélag sósíalismans, þar sem ekkert arðrán fyrirfinnst, þar sem framleiðendurnir eru sjálfir eigendur framleiðslutækjanna og uppskera í samræmi við vinnu sína. Við munum mæta Alþýðubandalaginu og Fylkingunni og öllum öðrum postulum borgara- og smáborgarastéttarinnar með baráttugleði í stéttabaráttunni og ekki gefa þeim stundlegan frið til að fremja illdæðisverk sín í nafni sósíalismans. Göngum að verki, félagar! Skerpum hina hugmyndafræðilegu stéttabaráttu á öllum sviðum! Útrýmum Fylkingunni og hringlandahætti hennar og sósíaldemókratískri umbóta- og endurskoðunarstefnu Alþýðubandalagsins sem straumum innan verkalýðsstéttarinnar!

KSML VEX MARKVISST BYLTINGARSINNAÐUR ÞRÓTTUR.

Að KSML vex hægt en markvisst þróttur er létt að sýna fram á. Á Akureyri hefur verið stofnaður stuðningsmannahópur KSML, sem þegar hefur látið heyra frá sér út á við, bæði með skipulagðri sölu á málgögnum samtakanna, Stéttabaráttunni og Rauða Fánanum, og eins með byltingarsinnaðri baráttu á "Vöku" einni, þar sem flett var ofan af útsendum prédikara Fylkingarinnar, sem reyndi undir yfirskyni "gagnrýni" á Fylkinguna og með lygum um KSML að veiða nokkrar "glataðar" sálir yfir á sitt band. Er nú svo komið á meðal Fylkingarmanna, að þeir verða að vinna trúboð meðal fjöldans í því skyni að "stoppa" þann altalaða sannleika, að Fylkingin sé í raun og veru ekkert annað en fágætt safn ruglaðra námsmanna, sem innihaldi allar pólitískar stefnur frá trotskíisma og anarkisma upp í viðurkennda Framsóknarmenn og eigi sér engan skipulagslegan grundvöll nema ef vera skyldi vaskahúsið við Laugaveg. Smeygja nú útsendarar Fylkingarinnar sér í raðir þeirra, sem gagnrýna Fylkinguna og reynda undir yfirskyni "gagnrýni" á Fylkinguna að vinna kjörorðinu "gerum líkið gangfært með öllum ráðum" fylgi meðal fjöldans. Þessi "nýja lína" Ara "Flaustra" Guðmundssonar ávann sér lítinn hljómgrunn meðal áheyrenda á Akureyri og var algjörlega vísað til baka af félögum okkar þar. Mun hinn nýstofnaði stuðningsmannahópur á Akureyri senda okkur grein í næsta tbl. Stéttabaráttunnar, þar sem þeir gera grein fyrir baráttunni við hentistefnumennina á Akureyri og framgangi hins daglega byltingarstarfs þar.

Á Neskaupsstað hefur í vetur verið starfandi skipulagður stuðningshópur fyrir KSML, sem hefur skipulagt sölu og áróður á kommúnískum ritum samtakanna og einnig verið með leshring í gangi. Hafa félagar okkar þar sent okkur efni um framgang námsstarfsins, sem því miður verður að bíða næsta tbl. Stéttabaráttunnar sökum plássleysis í þessu blaði. Er þess nú skammt að bíða, að upp rísi þróttmiklar byltingarsinnaðar deildir á þessum stöðum og er þá ekki langt í land með, að KSML muni geta veitt öllum efnahagslegum, pólitískum og hugmyndafræðilegum árásum auðvaldsstéttarinnar á verkalýðsstéttina kerfisbundna byltingarsinnaða mótstöðu og leitt verkalýðsstéttina í stéttabaráttunni frá Akureyri í norðri, Neskaupsstað í austri og Reykjavík í suðri og vantar þá bara á Vestfirðina til að hugmyndir kommúnismans verði kynntar í öllum landshlutum.

ALÞÝÐUBANDALAGIÐ REYNIR Í ÖRVÆNTINGU AÐ VIÐHALDA ÞVÍ LITLA TRAUSTI, SEM ENN FINNST MEÐAL VERKAMANNA.

Alþýðubandalagið, sem reynir með öllum tiltækum ráðum að vegleiða auðvaldið úr þeirri efnahagslegu og pólitísku kreppu, er íslenzkir borgarar eiga nú við að stríða, verður sífellt að grípa til stærri lyga og beita loddarabrögðum í enn ríkari mæli til þess að reyna að bjarga "alþýðu"smettinu á sér fyrir framan verkalýðsstéttina. Verða þeir Alþýðubandalagsmenn stöðugt að finna "nýjar verkalýðsteoríur" til að fela árásir sínar á verkalýðsstéttina og standa vörð um ríkjandi þjóðskipulag og borgaralega þingræðið.

Nú þegar þeir verða æ fleiri verkamennirnir, sem daufheyrast við jarmi Alþýðubandalagsins um að "nú verða allir að standa saman til að taka á sig byrðar þjóðfélagsins vegna náttúruhamfara og efnahagsörðugleika (lesist: nú verður verkalýðsstéttin að herða sultarólarnar, svo gróða auðvaldsins verði bjargað)" og þeim fjölgar, sem snúa bökum við Alþýðubandalaginu, þá beinir Alþýðubandalagið bónum sínum í æ ríkari mæli til smáborgaralegra menntamanna, ótýndra listsnobbara og tækifærissinna allra tegunda til að virkja sem stærstu samstöðu fyrir íhaldssamar árásir sínar á verkalýðinn. Í þessu skyni hefur Alþýðubandalagið sett á svið skrípaleikinn "Fræðslukvöld Alþýðubandalagsins", sem sýndur er einu sinni í viku með ýmsum framámönnum borgaranna og stendur yfir frá áramótunum síðustu og fram undir vor.

Eina slíka sýningu sóttu nokkrir félagar úr KSML til að heyra nýjustu lygar Alþýðubandalagsins og svik við verkalýðsstéttina, þegar ræða átti, hvort stéttaskipting væri á Íslandi.

Á sýningunni var hagfræðingurinn og kratinn Hjalti Kristgeirsson aðaltrúðurinn. Hafði hann það hlutverk með höndum að rugla fólk með "nýjum" skilgreiningum á stéttum. Markmið var að reyna að viðhalda "alþýðuljóma" Alþýðubandalagsins meðal þeirra fáu verkamanna, sem enn hafa ekki séð í gegnum stéttsvik Alþýðubandalagsins.

Ekki gefst hér pláss í þessu blaði til að taka upp allar árásir Hjalta á sósíalismann og verkalýðsstéttina, en við munum taka hér eitt dæmi, sem lýsir því, hvernig sérfræðingar af Hjaltagerð bregðast við einföldum spurningum úr eigin liði.

SÉRFRÆÐINGAR AF HJALTAGERÐ STANDAST EKKI EINU SINNI GÖMLUM ALÞÝÐUBANDALAGSDÖMUM SNÚNING.

Á fundinum var öldruð kona, Ester hét hún víst. Auðheyrt var, að hún var Alþýðubandalagsmanneskja. Á fundinum áttu nokkrir félagar úr KSML og Hjalti Kristgeirsson í rimmu og vildi hún auðsjáanlega rétta hlut Alþýðubandalagshjalta og bað hann að sýna þessum ungu mönnum fram á, hvað Alþýðubandalagið ætlaði að gera til að koma á sósíalísku þjóðfélagi, og láta þá með því þegja í eitt skipti fyrir öll. Svaraði Hjalti þessu með útúrsnúningi og naut þess að konan var gömul. Flýtti hann sér að ræða um mál, er kom þessu ekkert við. Nokkru seinna kom konan aftur fram með spurninguna og enn svarar Hjalti ekki, en undarlega grænn var hann. Undir lok fundarins kom svo konan í þriðja sinn með þessa fyrirspurn og ætlaði þá starfsbróðir Hjalta í stéttsvikum, sjálfur fundarstjórinn, herra Arnmundur Bachmann (lögfræðingur og sérlegur aðstoðarsérfræðingur Lúðvíks Jósepssonar sjávarútvegsmálaráðherra) að bjarga honum og spurði í fyrsta og eina skiptið á fundinum, hvort væru ekki fleiri fyrirspurnir - hann ætlaði nefnilega að safna þeim.
En lengur gat Hjalti ekki smogið, hann varð að svara. Og svarið hljóðaði: "Framtíðin mótast í okkur sjálfum og verður hvorki betri né verri en við erum sjálf (vegir guðs eru órannsakanlegir, okkar ath.s.)".
Svo einfalt var það

Við munum gera nánari grein fyrir nýjustu endurskoðunum og svikum Alþýðubandalagsins við hugmyndafræði öreigastéttarinnar í næsta tbl. Rauða Fánans og þar verður einnig fræðslukvöldum og sérfræðingum Alþýðubandalagsins í stéttasamvinnuhugmyndum gerð skil.

VERKAMENN! VIÐ HÖFUM EINSKIS AÐ VÆNTA AF ALÞÝÐUBANDALAGINU! ÞAÐ HEFUR SVIKIÐ OKKUR OG MUN ALLTAF SVÍKJA OKKUR!
SNÚUM BAKI VIÐ STÉTTSVIKURUNUM!
TÖKUM ÞÁTT Í UPPBYGGINGARSTARFI KOMMÚNISTAFLOKKS Á ÍSLANDI UNDIR FORYSTU KSML!
STÉTT GEGN STÉTT!




"Fræðilegt" brokk Hjalta til "skilnings á stéttum auðvaldsþjóðfélagsins er komið í ósættanlega andstöðu við fræðikenningu öreigastéttarinnar, er hann segir: "Stéttum auðvaldsþjóðfélagsins má skipta í eftirtalda hópa: fjármagnsstýrendur og ósjálfstæða." Þannig hyggst þessi borgaralegi hindrunarhlaupari afsanna sérstöðu öreigastéttarinnar í auðvaldsþjóðfélaginu, sem hin eina byltingarsinnaða stétt, og draga hana í dilk með smáborgarastéttinni og millihópunum.

En vangaveltur og skeggræður Hjalta verða miskunnarlaust afhjúpaðar. Með marxismann-lenínismann að vopni ræðst KSML gegn kenningum hans.

# TOGARAVERKFALLIÐ
## Tengjum efnahagslegu baráttuna baráttunni fyrir sósíalismanum!

22. janúar síðastliðinn hófst verkfall undirmanna á togurum. Sáttafundir hófust 26. október og höfðu aðeins átta fundir verið haldnir, þegar verkfallið skall á og að vonum hvorki gengið né rekið vegna algjörs skilningsleysis útgerðarauðvaldsins á þörfum sjómanna. Aðalágreiningurinn stendur um hærra fastakaup og aukinn aflahlut til handa sjómönnunum. Árás útgerðarauðvaldsins í gegnum borgarapressuna er á svipuðu stigi og á þrítugasta áratugnum, þegar réttlátar kröfur verkalýðsins fyrir lífsnauðsynjum voru "græðgi" og verkföll "þjóðarsmán" í munni fasistanna. Gott dæmi um þessar fasísku árásir á íslenzkan verkalýð er greinin í Vísi 16. febrúar s.l. eftir Þorstein Thorarensen, þar sem hann sannar enn einu sinni hatur sitt á verkalýðnum með svívirðilegum árásum á hann.

VERKFALLIÐ.

Síðustu ár hafa kjör togarasjómanna versnað til mikilla muna og miðað við bátasjómenn voru meðaltekjur þeirra árið 1971 355 þúsund á móti 538 þús. bátasjómanna. Þetta sýnir, að kaup sjómannanna er komið langt niður fyrir það, sem sjómaðurinn þarf sér til lífsviðurværis. Þessar eru orsakirnar fyrir því að sjómennirnir eiga ekki annars úrkostar en fara í verkfall til að fylgja eftir kaupkröfum sínum eftir að hafa árangurslaust reynt að komast að samkomulagi við útgerðarauðvaldið, án þess að grípa til verkfalls. Borgurunum kemur ekki til hugar að ganga til samninga, fyrr en þeir hafa gert sitt ýtrasta til að brjóta niður baráttuþrek sjómannanna og fengið þá til að draga til muna úr kröfum sínum.

Ef sjómennirnir standa harðir á kröfum sínum og hopa hvergi eru borgararnir ekki ráðalausir. Borgararnir eiga sér alþingi, sem setur bráðabirgðalög til að brjóta á bak aftur kröfur sjómannanna og gera þar með verkfallsréttinn að engu sem baráttutæki fyrir hærri launum. Og þeir eiga sér líka gerðardóm, sem ákveður sjómönnunum kaup, en hann hefur til viðmiðunar verndun gróða auðvaldsins. Þessar ráðstafanir ríkisvaldsins þekkir íslenzkur verkalýður.

FASÍSKAR ÁRÁSIR BORGARAPRESSUNNAR Á VERKALÝÐINN.

Í grein í Vísi eftir Þorstein Thorarensen undir fyrirsögninni "Þjóðarsmán" ræðst hann á viðbjóðslegan hátt gegn réttlátum kröfum sjómanna um kjarabætur. Hann segir meðal annars: "En mesti viðbjóður þessa verkfalls, sem veldur því, að hver einasti Íslendingur blygðast sín og roðnar niður í tær, er að verkfallið hófst samtímis eldgosinu í Vestmannaeyjum."
Þannig stendur allt á haus í heila þessa borgaralega skríbents. Verkfall sjómanna verður að "viðbjóði", sem hleypir reiðiroða í kinnar, ekki allrar þjóðarinnar, heldur borgarastéttarinnar, sem stöðugt reynir að auka arðrán sitt á öreigastéttinni.

Tal Þorsteins um gosið í Eyjum er aðeins herbragð hans til að reyna að sanna málstað sinn - að verkalýðurinn eigi að láta kapítalistana kúga sig, án þess að sýna mótspyrnu. Verkfall togarasjómanna er algjörlega tímabært og í engum tengslum við eldgosið, kemur því ekkert við og gangur gossins hefur engin áhrif á verkfallið, gang þess, né hvort það stendur lengur eða skemur.

Þegar Þorsteinn mælir afstöðu manna til togaraverkfallsins, mælir hann hana með borgaralega mælikvarðanum. Hann álítur, að ummæli Hannibals beri vitni um, að "þessi aldni vestfirzki jöfur ætli að rísa hærra og hærra í þróttmikilli einbeitni sem forystumaður", þegar hann segir: "Nú er hvorki staður né stund til að fara í verkfall".
Eins og Þorsteinn lítur á ummæli Hannibals eru þau auðvitað rétt afstaða fyrir borgarana, en þetta sýnir sjómönnum og öðrum verkamönnum hvers konar menn verkalýðsforingjarnir eru og með hverjum þeir taka afstöðu í hagsmunabaráttu verkalýðsins. Þess vegna er ekki um annað að ræða fyrir verkamenn en að hrista af sér afturhaldssama krataforystu verkalýðsfélaganna og treysta eingöngu á eigin krafta. Kjósið upp á nýtt í ykkar eigin nefndir, verkfallsráð og sáttanefndir!

En þetta er aðeins efnahagsleg hlið stéttabaráttunnar, "verkföll eru stríðsskóli, en ekki stríðið sjálft". (Lenín)

STRÍÐIÐ SJÁLFT: BARÁTTAN FYRIR SÓSÍALISMANUM.

Sögulegt hlutverk öreigastéttarinnar er að kollvarpa arðránsþjóðfélagi kapítalismans og reisa alræði öreiganna. Vegna hinnar ósættanlegu móthverfu milli öreigastéttarinnar annars vegar - hinnar skapandi stéttar - og auðvaldsstéttarinnar hins vegar, sem berst fyrir varðveizlu arðráns og kúgunar á öreigastéttinni, er eina leiðin fyrir verkalýðinn til að öðlast frelsi að bylta borgarastéttinni í valdbyltingu.

Það verður aldrei um það að ræða, að borgararnir afsali sér eignarréttinum á framleiðslutækjunum, þess vegna er leið endurbóta og þingræðis ekki leiðin til sósíalismans, heldur verður öreigastéttin að skipuleggja sig sjálfstætt sem stétt í öflug byltingarsamtök, sem leiða munu öreigastéttina til sigurs í stéttabaráttunni.

Verkamenn! Skipuleggjum okkur í einu byltingarsinnuðu samtökin á Íslandi , KSML og berjumst þannig markvisst fyrir óhjákvæmilegum sigri sósíalismans, eina raunverulega sigri verkalýðsins í stéttastríðinu!
Að skipuleggja sig í KSML þýðir að hefja námsstarf í grundvallaratriðum sósíalismans eftir námshring KSML.
Hafið samband við KSML, Skólastræti 3b (kl. 5-7 á föstudögum) og látið skrá ykkur í stuðningsstarfið!

Framhald af forsíðu...

# Kreppu auðvaldsins velt yfir á verkalýðinn...

færri menn í áhöfnina á hverjum þeirra.
En tækniþróunin hefur einnig afdrifaríkar afleiðingar fyrir auðmennina. Þeir eru tilneyddir til að kaupa sífellt fleiri og dýrari vélar. Aftur á móti þarf færri verkamenn við hverja vél en áður. Sá hluti auðmagnsins, sem notaður er til að kaupa vélar, eykst, og sá hluti, sem er notaður til kaupa á vinnuafli, minnkar eins og sést mjög vel á dæminu með skuttogarana. Í auðvaldsþjóðfélaginu er það aðeins vinnuaflið, sem skapar gildisaukann.
Því minni sem hluti vinnuaflsins er af heildarfjárfestingu auðmagnsins, því minni verður gildisaukinn eða gróðinn í hlutfalli við heildarauðmagnið.
Heildargróðinn getur auðvitað aukizt og gerir svo vegna þess hve auðmagnið vex hratt, en í afstöðu til auðmagnsins verður gróðinn minni, ef ekkert er gert til að hindra fall hans.
Þetta nefnist tilhneiging gróðahlutfallsins til að falla. Til að verjast þessu lögmáli auðvaldsframleiðslunnar beita auðmennirnir fjórum höfuðleiðum :

1) að koma í veg fyrir, að alltof stór hluti auðmagnsins sé nýttur til kaupa á vélum, hráefnum og slíku, t.d. með því að kaupa ódýrari vélar og hráefni.
2) auka arðránið á verkalýðnum með því að lækka launin.
3) auka arðránið með því að lengja vinnudaginn - þ.e. aukin eftir- og næturvinna.
4) auka arðránið með því að auka framleiðni vinnunnar - þ.e. auka vinnutaktinn og lækka ákvæðisvinnuna.

Á þessu sjáum við, að launalækkanir eru óhjákvæmilegar fyrir íslenzka auðvaldið í dag, eins og kjaraskerðingarsókn þess sýnir, til þess að koma í veg fyrir að gróði auðvaldsins minnki. Þannig skiptir engu máli, hvaða lygum kratarnir í Alþýðubandalaginu beita til þess að fegra íslenzka auðvaldsskipulagið, samanber ummæli Lúðvíks um "rekstrarfjárskort sjávarútvegsins" sem orsök "erfiðleikanna" og ummæli hans um "grundvallarmun á þessari gengisfellingu og öðrum fyrri".
Eða lygar fulltrúa SÍS-auðvaldsins um að "gengisfellingin tryggi atvinnuöryggi og kaupmátt launa" (Ólafur Jóhannesson).
Raunveruleikinn segir annað en þessi innantómu orð þeirra.
Kreppu auðvaldsins skal velt yfir á herðar verkalýðsins.

SÓSÍALISMINN ER EINA LAUSNIN.

Til þess að sú verðmætaaukning, sem fyrirsjáanleg er á þessu ári, renni óskert í vasa auðmannanna, hljóða ráðstafanir ríkisstjórnarinnar upp á lækkun launa verkalýðsins.
Til að sýna fram á hver vá er fyrir dyrum er logið til um verðmætarýrnun útflutningsins vegna Vestmannaeyjagossins. Þó hefur síðustu daga verið dregið í land og 20% minni útflutningur er orðinn að 2 % minni útflutningi.

Það er dæmigert fyrir auðvaldið, að þegar rætt var um skaðann, sem gosið olli, þá ríkti eitt sjónarmið: hvert er "tap" kapítalistanna. Aldrei heyrist minnzt á, að verkamennirnir í Eyjum hafa raunverulega tapað nær öllu því, sem þeir hafa stritað fyrir í gegnum árin.

FRAMHALD Á NÆSTU SÍÐU

# Tilgangur utanríkisstefnu Kína:

## Sundra heimsvaldasinnunum til að skjóta heimsstyrjöldinni á frest

Eftirfarandi grein hreyfir við nokkrum staðreyndum, sem hafa verður í huga til að skilja utanríkisstefnu sósíalísku landanna og þá fyrst og fremst Kína. Það er stefna, sem byggð er á sama grundvelli og stefna Sovétríkjanna á tímum Leníns og Stalíns.

Októberbyltingin 1917 setti skrekk í auðvaldsheiminn. Heimsvaldasinnarnir fengu þar með sameiginlegt áhugamál - að mola fæðingarstað sósíalismans þegar í sköpun. Það hófst fyrst með beinum afskiptum og síðan með stöðugum hótunum um stríð. Samtímis því sem heimsvaldasinnarnir (Þýzkaland, Frakkland, England og USA með aðstoð Japan og Ítalíu) áttu í innbyrðis erjum, reyndu þeir að æsa hvorn annan gegn Sovétríkjunum. Þegar fasismanum á Ítalíu og í Þýzkalandi óx fiskur um hrygg vonaðist enska, franska og ameríska auðvaldið til að Hitler myndi senda heri sína gegn Sovétríkjunum og afmá sósíalismann af yfirborði jarðar. Eftir það gætu þeir sjálfir skipt á milli sín fengnum.

En gangur málanna varð annar. Sovétríkjunum tókst, undir stjórn Stalíns, að koma í veg fyrir árásina um stundarsakir með því að hagnýta sér klofninginn í auðvaldslöndunum. Úr rústum stríðsins fæddust byltingarnar, fyrst og fremst á þeim stöðum í heiminum, þar sem kommúnistarnir höfðu unnið gott undirbúningsstarf, eins og t.d. í Kína. Í þeim löndum, þar sem kommúnistarnir höfðu gert mistök, t.d. Frakklandi, Ítalíu og jafnvel Grikklandi, tókst auðvaldinu að ná völdunum á ný. (Í nokkrum þessara landa tókst það þó ekki baráttulaust né án íhlutunar utan frá.)

Ástandið í heiminum í dag hefur margt sameiginlegt með ástandinu, sem ríkti á árunum kringum 1930. Hættan á styrjöld er staðreynd. Hvort sem þriðja heimsstyrjöldin skellur á eða ekki, er mikið undir því komið, hvort kommúnistarnir hafa lært af sögunni og gert sér grein fyrir verkefnum sínum. Þau verkefni og sú taktík, sem verður að þróa á mismunandi baráttusvæðum, er breytileg frá landi til lands. Í aðalatriðum er í dag, eins og á kreppuárunum, hægt að skipta heiminum í þrjár mismunandi herbúðir: Aðalstöðvar sósíalismans, hinn heimsvaldasinnaða hluta (þar með taldir sósíalheimsvaldasinnarnir) og kúgaðar þjóðir (hinn svokallaði þriðji heimur). Því er óhjákvæmilegt, að hin byltingarsinnaða taktík sé breytileg, eftir því um hvert þessara þriggja svæða er að ræða.

INNILOKUN KÍNA.

Hættan á heimsstyrjöld er augljós og raunsæ, vegna þess að bandarísku heimsvaldasinnarnir og sovézku sósíalheimsvaldasinnarnir hafa slegið járnhring umhverfis Kína með herflugvöllum, herflokkum og leppríkjum og stöðugt aukið herafla sinn. Markmiðið er að mola sósíalismann í Kína og að hagnýta sér hina miklu möguleika í vinnuafli og náttúruauðlindum, sem þar eru. Sá, sem lokar augunum fyrir þessum staðreyndum, getur ekki skilið utanríkisstefnu Kína.

Ráðagerðin hófst eftir síðari heimsstyrjöldina, þegar USA, sem studdi ChianKai-chek gegn kínversku alþýðunni, umkringdi hið unga alþýðulýðveldi Kína eftir byltingarsigurinn með leppríkjum í austri og suðvestri, með hertöku kínverska landssvæðisins Taiwan og með ofbeldi gegn Kóreu og Víetnam.

Þegar Sovétríkin undir stjórn Krústsjoff-endurskoðunarsinnanna skiptu lit, frá rauðu í brúnt, fylgdu Rússarnir á eftir og umkringdu Kína í norðri og vestri. Þegar Krústsjoff, á fundinum með Eisenhower í Camp David í Sept. 1959 og jafnvel eftir það, gaf eftir fyrir kröfum heimsvaldasinnanna, gat USA smám saman flutt þyngdarpunktinn í hernaðaráætlunum sínum frá Evrópu til Kyrrahafsins, þar sem USA þá jók ofbeldi sitt gagnvart Indókína.

Á síðari tímum hafa USA-heimsvaldasinnarnir gengið til móts við sósíalheimsvaldasinnanna, þegar þeir nú hafa byrjað að þröngva sér gegnum Indland og Austur-Pakistan og hafið bein afskipti suð-austan við Kína með svikastjórnum svo sem Lon Nol í Kambódíu og Súhartó í Indónesíu, þar sem Sovétríkin láta af hendi vopn, sem notuð eru gegn þjóðfrelsishreyfingum.

Þegar Sovétríkin áttu í deilum við Kína, sem stöðugt hélt áfram á braut sósíalismans undir stjórn Maós Tsetungs, drógu Rússarnir saman herafla við kínversk-rússnesku landamærin. Vesturlenzkir ferðalangar með Síberíulestinni (t.d. ameríski blaðamaðurinn Robert Friend) tilkynntu í ágúst 1963, að langar vörulestir væru á austurleið fjórðu eða fimmtu hverja mínútu og flestar af þeim hlaðnar skotvopnum, skriðdrekum og öðrum hergögnum.

1962 tókst Rússunum að fá 60.000 Kínverja til þess að flytja frá Ili og Tancheng héruðunum í Sinkiang til rússneskra landssvæða. Á árunum 1960-64 gerðu Rússarnir meira en 1600 árásir á landamærum Kínverja og meira en 4000 sinnum á árunum ´64-´69. Oft var um að ræða árásir í miklum mæli yfir landamærin (t.d. Kamír). 1968 höfðu Rússarnir 15 herdeildir við landamæri Kína, 1970 var fjöldinn kominn upp í 30 og 1971 voru þær orðnar 44. Þetta er stærsti herafli, búinn kjarnorkuvopnum til árásar, sem nokkru sinni hefur verið safnað saman í heiminum.



Hertekin vopn, eftir innrás sovézkra hersveita inn á kínverskt landsvæði.

Þekktasta árásin var gerð 1969. Þá kröfðust sovézku endurskoðunarsinnarnir meir en 1000 km$^2$ af kínversku landssvæði, fyrst og fremst við Usurri fljótið, þar sem þeir gerðu innrás nokkra kílómetra inn á kíverskt landssvæði í nágrenni Chenpao eyjarinnar. Kröfurnar voru byggðar á fölskum landakortum, sem var algjörlega vísað á bug af kínversku stjórninni og sérfræðingum hennar. Rússnesku herirnir voru neyddir til undanhalds af kínverska þjóðfrelsishernum og lögreglunni á svæðinu.

PÓLITÍSKAR, HERNAÐARLEGAR OG DIPLÓMATÍSKAR VARNIR KÍNVERSKA ALÞÝÐULÝÐVELDISINS.

Eftir að þessir atburðir gerðust hafa Kínverjar treyst varnir sínar hugmyndafræðilega og hernaðarlega. Skipulag almannavarna fyrir Peking og allar stærri borgir er tilbúið. Iðnaðarframleiðslunni hefur verið veitt meira út á landsbyggðina, miklu magni matvæla hefur verið komið fyrir á hernaðarlega mikilvægum stöðum í landinu, varnareldflaugar standa tilbúnar á skotpöllunum. Sósíalisminn hefur verið festur í sessi með menningarbyltingunni.

Út á við hafa Kínverjar eignazt vini hvarvetna um heiminn og keppast við að skapa einingu gegn heimsvaldastefnu og heimsstyrjöld. Á sama tíma er hvert tækifæri notað til að auka klofninginn meðal heimsvaldasinnanna í þeim tilgangi að draga á langinn myndun heimsvaldablokka, sem eru ætíð óhjákvæmilegur undirbúningur og aðdragandi uppskiptastyrjalda. Þessvegna fengu Nixon og Tanaga að koma til Peking og sovézkir fulltrúar fá að vera með við viss opinber tækifæri.

Heimsvaldasinnarnir hafa barið höfðinu við harðan steininn með tilraunum sínum til að auka yfirráðasvæði sín og reyna nú eftir beztu getu að fá fram samvinnu sín á milli, báðum til góðs. Formsatriði þessara samvinnutilrauna voru samþykktar á Moskvufundinum milli Nixons og Bresnjéfs í maí s.l. ár.
Beinn árangur af Moskvufundinum er til dæmis það, að Bandaríkin hafa lokað af Norður-víetnamskar hafnir, án þess að Sovétríkin hafi reynt að kom í veg fyrir það.

Taktík Kínverja gegn þessum aðgerðum er að opinbera þessi hrossakaup milli heimsvaldasinnanna og sósíalheimsvaldasinnanna og að reyna að skapa alþjóðaeiningu gegn heimsvaldastefnunni. Kínverjarnir opinbera þetta fyrst og fremst fyrir alþýðu kúguðu þjóðanna, í áróðri gegnum S.Þ. og með samböndum, sem þróazt hafa milli Kína og ríkja í þriðja heiminum. Þessi ríki eru hvött til sjálfstæðrar stefnu gegn heimsvaldalöndunum. Slík stefna táknar hlutlægt séð stuðning við Kína sem fulltrúa sósíalismans og andstöðu gegn heimsvaldastefnunni og þeim styrjöldum, sem hún kallar fram.

---

Raunverulegt tap Einars ríka og annarra stórkapítalista og auðmanna í Eyjum er sáralítið miðað við það, að bátar þeirra og verksmiðjur (Vélsmiðjan Þór t.d.) halda áfram framleiðslu með aðeins lítilfjörlegu stoppi, þar sem þessa dagana er verið að flytja vélarnar í land og þetta margumrædda tap er aðeins áætlaður gróði þeirra sjálfra á vinnu verkalýðsins.

Skattaálögurnar með viðaukaskattinum stafa þannig ekki af sérstökum erfiðleikum vegna gossins í Eyjum, heldur vegna lögmálsbundinnar kreppu allra auðvaldsþjóðfélaganna og verður ævinlega óleysanlegt vandamál meðan einstaklingseign á framleiðslutækjum og stjórnleysi í framleiðslunni er grundvöllur framleiðslunnar og einkagróði og arðrán er látið ráða framleiðslu þjóðfélagsins.

Það verður ekki fyrr en með samfélagslegri eign framleiðslutækjanna og framleiðslu eftir þörfum þjóðfélagsins undir alræði öreiganna, að hægt verður að leysa endanlega kreppu- og verðbólguvandamál auðvaldsþjóðfélagsins, sem eru afleiðingar af offramleiðslu og skipulagsleysi framleiðslu auðvaldsins. Þar sem aftur á móti í sósíalísku þjóðfélagi lýtur framleiðslan heildarskipulagi og er miðuð við þarfir alls þjóðfélagsins.

Það er aðeins um eina leið að ræða fyrir íslenzka öreiga til að berjast fyrir endanlegu afnámi sjúklegra framleiðsluhátta auðvaldsþjóðfélagsins og það er að berjast fyrir sósíalísku byltingunni, afnámi auðvaldsþjóðfélagsins og uppbyggingu sósíalíska þjóðfélagsins undir forystu öreigastéttarinnar. En þetta gerist ekki af sjálfu sér. Til þess þurfum við að sameina kraft stéttarinnar í öflug byltingarsamtök, sem leitt geta stéttina til sigurs yfir auðvaldsstéttinni undir merki kommúnismans.
Í dag eru aðeins ein samtök á Íslandi, sem tekið hafa þetta verkefni á hendur, Kommúnistasamtökin m-l. Að vinna fyrir sósíalismann í dag þýðir þess vegna að taka þátt í byltingarstarfi fyrir KSML.

---

Framhald af bls.3

## STÓRSIGRAR ALÞÝÐU VÍETNAM

röð þeirra styrjalda, sem heimsvaldastefnan skapar til að viðhalda herraveldi sínu á jörðunni. Því verður fylgt eftir með mörgum styrjöldum. Hver og einn, sem er heiðarlegur í stuðningi sínum við Víetnama, verður að berjast fyrir því að fá sömu meðvitund og þá, sem gert hefur Þjóðfrelsisfylkingunni og Alþýðulýðveldinu mögulegt að standast gegn hryðjuverkum USA-heimsvaldastefnunnar og sjá í gegnum öll loddarabrögð hennar.

Þegar ákafir blaðamenn í París spurðu aðalsamningamann Alþýðulýðveldisins Víetnam, Le Duc Tho, hvort hann héldi, að styrjöldin í Víetnam væri síðustu umfangsmiklu vopnuðu átökin í heiminum, sagði hann: "Stríð verða til svo lengi sem heimsvaldastefnan er til." Þannig er sannleikurinn. Þess vegna verður stuðningurinn við Indókína að þróast í meðvitaða baráttu gegn öllu heimsvaldakerfinu. Hann verður að vera byltingarsinnaður og hluti af baráttu verkalýðsstéttarinnar fyrir sigri sósíalismans - einnig í okkar landi. Og þá verður baráttan jafnvel að beinast gegn öllum framámönnum borgarastéttarinnar, sem nú gráta fölskum samúðartárum yfir hörmungunum í Víetnam.
Við verðum að sýna samstöðu á grundvelli öreigastéttarinnar, taka höndum saman við félaga okkar í öllum heiminum í sameiginlegri baráttu til að útrýma að eilífu arðráni, kúgun og styrjöldum heimsvaldastefnunnar.

LIFI BARÁTTA ÖREIGASTÉTTAR VÍETNAMS.

LIFI BARÁTTA HENNAR FYRIR ALRÆÐI ÖREIGANNA.

STYÐJUM ÞJÓÐFRELSISFYLKINGUNA OG ALÞÝÐULÝÐVELDIÐ VÍETNAM.

---

# BRÉF FRÁ LESENDUM

Í síðasta tbl. Stéttabaráttunnar var send út hvatning til lesenda blaðsins um að skrifa í blaðið greinar, fréttir og athugasemdir úr hinni daglegu stéttabaráttu. Við birtum hér fyrsta lesendabréfið, sem barst að vísu fyrir all nokkru, en í því er lýsing á atburði, sem er sérstaklega afhjúpandi fyrir afstöðu og starf íslenzku "verkalýðsleiðtoganna" í dag. Við endurtökum hvatningu okkar: Skrifið í Stéttabaráttuna um reynslu ykkar á vinnustöðum og úr stéttabaráttunni, - flettum ofan af stéttsvikurum og afhjúpum hina rotnu pólitík og kúgun stéttaróvinarins í öllum myndum.

## Sósíalfasistarnir sýna sitt rétta andlit



Mánudaginn 18. desember 1972 milli kl. 4 og 5 eftir hádegi átti ég leið upp Laugaveginn og er ég kem að húsi nr. 18 (Mál og menning, Alþ. samb. Ísl.) sé ég mikla þröng manna í opi undirgangsins inn í húsið, sem er að horfa á eitthvað, er vakið hefur athygli.
Ég sting mér í hópinn til að fylgjast með og sé þá Björn Jónsson (forseta ASÍ og þingmann Samtaka frjálslyndra og vinstri manna) vera að standa upp ofan af manni, sem liggur þarna á götunni í innganginum, líta síðan með grimmdarsvip og takmarkalausri fyrirlitningu á manninn og áhorfendur og strigsa inn í húsið samangrettur eins og herforingi í nazistaher.

Ég vind mér að fólki, sem var nærstatt og hafði fylgzt með, og spyr, hvað hafi gengið á. Lýsing þess var eftirfarandi: Í undirganginum stóð all drukkinn maður og gerði ekki neitt. Er Björn Jónsson ber þar að á leið inn í húsið gengur hinn drukkni til hans og segir eitthvað á þá leið... (daginn áður, 17.12., birti ríkisstjórnin yfirlýsingu sína um gengislækkun), að hann eigi þátt í þessari gengisfellingu, sem muni þrengja að kjörum verkafólks - hann, verkalýðsleiðtoginn sjálfur.

Þó maðurinn væri svo drukkinn, að hann gæti vart staðið á fótunum, verður háttvirtum þingmanni og "verkalýðsleiðtoga" svo mikið um þessi orð, að hann ræðst þegar á manninn, fellir hann í götuna og leggst ofan á hann með barsmíðum og formælingum - og var einmitt að standa upp, þegar mig bar þarna að.
Manninum, sem Björn lamdi niður, þurfti að hjálpa til að komast á fætur - en mannfyrirlitningunni og hrokanum í fasi Björns er bezt lýst með því, að ekkert virtist vanta á hann annað en svörtu stígvélin og hanskana til að hann væri eins og útklipptur stormsveitarherforingi.

Þetta atvik sýnir okkur, hvernig "forystumenn verkalýðsins" bregðast við, er þeim er sagður sannleikurinn um verk þeirra. Og að þessir svokölluðu forystumenn vinna ekki fyrir verkalýðsstéttina, heldur þvert á móti höfuðóvin hennar - íslenzka auðvaldið. Framfylgja þess vilja og óskum í hvívetna - en að sjálfsögðu fyrir ákveðna þóknun í ýmiss konar formi.

Stuðningsmaður.

# Leppstjórn USA á Filippseyjum á undanhaldi fyrir byltingarsinnaðri þjóðfrelsisbaráttu

Hálfnýlendan Filippseyjar er eyjaklasi í Kyrrahafinu, sem telur um 7.100 eyjar og sker. Íbúar eru taldir rúmar 37 milljónir. 90% þeirra eru verkamenn og bændur, sem í töluverðum mæli lifa jarðnæðis- og atvinnulausir í fátækrahverfum borganna. Landið er málmauðugt, mikið vex þar af nytjaskógi og gúmmíræktun er geysimikil. Þessu landi hefur löngum verið lýst í fréttamiðlum borgarastéttarinnar sem einu mesta fyrirmyndarríki í Asíu. Því hafa sjálfsagt margir velt fyrir sér, hvernig á því stóð, að lýst var yfir neyðarástandi og herlög tekin í gildi þar í september s.l. Fyrir þá, sem kynnt hafa sér sögu þessarar "paradísar", kom þetta ekki á óvart.

Á undanförnum árum hefur sífellt aukizt andstaða íbúanna gegn stjórn Marcosar forseta. Þessi leppur bandaríska auðvaldsins komst til valda 1966 og átti með þvaðri sínu um "þjóðlega byltingu" að slæva vaxandi andstöðu alþýðunnar gegn yfirráðum bandarísku heimsvaldasinnanna. Þessi "þjóðernissinni" hefur ekki legið á liði sínu. Allt hans hjal um þjóðlega endurreisn, jarðeignaskiptingu og innlenda endurreisn voru og eru orðin tóm. Á valdatíma hans hefur jarðeignalausum bændum fjölgað að miklum mun, atvinnuleysi aukizt og ítök bandarískra einokunarfyrirtækja í ríkisbákninu og fjármálalífi landsins aukizt. Á sama tíma hefur honum einnig tekizt að verða ríkasti maður landsins. Loforð hans um lýðræðislegri stjórnarhætti hafa ekki borið annan ávöxt en þann, að fasisminn vex þar hraðar en gorkúla á haugi. Herinn hefur verið styrktur að miklum mun og telur nú 83.000 manns og morð og fangelsanir á pólitískum andstæðingum forsetans eru daglegt brauð. Kommúnistar og aðrir framfarasinnar eru ofsóttir miskunnarlaust, hvar sem til þeirra næst. En allt hefur komið fyrir ekki, alþýða Filippseyja lætur ekki þagga niður í sér. Sífellt stærri kröfugöngur gegn heimsvaldasinnunum og herlögum ríkisins eru farnar. Æ fleiri raddir krefjast þess, að pólitískir fangar verði látnir lausir.

Það er í ljósi þessara staðreynda og síðast en ekki sízt þeirrar, að á Filippseyjum vinnur kommúnískur her, Nýi alþýðuherinn, að því að reka bandarísku heimsvaldasinnana og leppi þeirra frá eyjunum, sem gripið er til sífellt harkalegri aðgerða af hendi fasistanna.

Baráttan gegn kúgun og harðstjórn er ekkert nýnæmi á Filippseyjum. Eyjaskeggar gerðu hvað eftir annað uppreisnir gegn yfirráðum Spánverja, sem lögðu undir sig eyjarnar á miðri 16. öld. Undir lok 19. aldar vannst sigur í þeirri baráttu og hinn 12. júní 1898 lýstu Filippseyingar yfir stofnun sjálfstæðs lýðveldis. Þá var svo komið, að Spánverjar héldu aðeins höfuðborginni, Manila, og nokkrum öðrum víggirtum herstöðvum á stærstu eyjunni, Luzon. Bandaríkjamenn fóru sama ár með stríði á hendur Spánverjum í því augnamiði að leggja undir sig nýlendur þeirra. Á skömmum tíma sölsuðu þeir undir sig Puerto Rico, Kúbu og eyna Guam í Kyrrahafinu. Þetta spánsk-bandaríska stríð, sem einungis var háð í nýlendum Spánverja, var sú átylla, sem Bandaríkjamenn notuðu sér, þegar þeir settu ógrynni herliðs á land í Filippseyjum. Eftir fjögurra ára hatrammt stríð, sem kostaði 600.000 manns lífið, höfðu bandarísku heimsvaldasinnarnir gert landið að nýlendu sinni.

Bandaríkin héldu þessari nýlendu sinni fram til ársins 1942, er Japanir hertóku hana. Á þessum 40 árum kom hvað eftir annað til uppreisna, sem barðar voru niður með harðri hendi.

Kommúnistaflokkur Filippseyja, sem stofnaður var árið 1930, tók þegar við leiðsögninni í baráttunni gegn heimsvaldasinnunum. Þessi leiðsögn varð ekki langæ, því flestir leiðtogar flokksins voru handteknir árið 1931 og meðlimir flokksins ekki nægilega skólaðir og reyndir til þess að geta flett ofan af erindrekum borgarastéttarinnar, sem hreiðrað höfðu um sig innan flokksins. Flokkurinn varð því fljótlega að máttlausum endurskoðunarflokki, sem taldi baráttuna í þingsölunum mikilvægari en skipulagningu verkalýðsstéttarinnar og bændanna gegn nýlendustjórninni. Fjölmargir urðu þó til að halda hinni vopnuðu baráttu áfram, en þar sem þeir höfðu ekki sameiginlegan skipuleggjanda biðu þeir marga og mikla ósigra.




Þegar Japanir réðust á Filippseyjar í seinni heimsstyrjöldinni mættu þeir harðri mótspyrnu íbúanna. Skæruliðasveitirnar, sem fyrir voru í landinu, tóku upp baráttuna við þá og til þeirra streymdu andstæðingar fasismans. 1942 var alþýðuherinn HUK stofnaður, sem olli japönsku herjunum á eyjunum gífurlegu manntjóni. Þessi her hafði að mestu leyti frelsað eyjarnar er herir McArthurs sneru aftur til Filippseyja árið 1945. Endurskoðunarsinnarnir í forystu kommúnistaflokksins tóku þessum fornu nýlenduherrum sínum opnum örmum og skipuðu þeim flokksmönnum, sem tekið höfðu þátt í hinni vopnuðu baráttu gegn Japönum, að leggja niður vopn. Töluvert margir neituðu og töldu réttilega, að barátta gegn bandarísku heimsvaldasinnunum væri ekki síður mikilvæg en sú, sem þeir höfðu háð gegn þeim japönsku. Þessi andstaða hinna byltingarsinnuðu andspyrnumanna var eitur í blóði nýlenduherranna og leppa þeirra. Þeir hófu því umsvifalaust útrýmingarherferð á hendur þeim og tókst að lama andspyrnu þeirra um sinn. Hin endurskoðunarsinnaða Lava-klíka kommúnistaflokksins átti ekki síður en aðrir sinn þátt í þeirri ógnaröld.

Til þess að villa almenningi sýn og kaupa sér vinsældir dulbjuggu Bandaríkjamenn yfirráð sín með því að koma á fót "sjálfstæði". Þetta gerðist hinn 4. júlí 1946. ( Það er e.t.v. táknrænt fyrir þetta "sjálfstæði" Filippseyinga, að einmitt 4. júlí var valinn sem þjóðhátíðardagur. Þessi sami dagur er nefnilega þjóðhátíðardagur Bandaríkjamanna). En þrátt fyrir að landið sé að nafninu til sjálfstætt lýðveldi er það enn í dag undir járnhæl bandaríska auðvaldsins.

Bandarísku einokunarfyrirtækin ráða yfir öllum mikilvægustu iðnaðargreinum landsins svo sem olíu-, gúmmí-, efna-, áburðar- og lyfjaiðnaðinum. Auk þess hafa þau yfirráð yfir öllum stærstu bönkum og tryggingarfélögum, flutningatækjum, byggingariðnaði og þungaiðnaðinum.

Hernaðarleg yfirráð Bandaríkjanna eru því sem næst algjör. Þar eru rúmlega 20 hernaðarbækistöðvar með um 50.000 bandarískum hermönnum, sem búnir eru öllum nýjustu kjarnorku-, sýkla- og efnavopnum. Her Filippseyja er undir beinni stjórn bandarískra hernaðarráðgjafa og deildir úr honum hafa tekið þátt í þjóðarmorðinu í Vietnam. Bandarísk "þróunaraðstoð" hefur veitt ógrynni fjármagns í vasa gerspilltrar yfirstéttar landsins.

Ástandið í fjármálum Filippseyja er hrapallegt. Bandarísku heimsvaldasinnarnir raka að sér þre- til fimmföldum ágóða af fjárfestingum þar. Innlendir leppar þeirra sökkva landinu samtímis dýpra og dýpra í skuldir við útlönd, einkum þó Bandaríkin. Gjaldmiðill Filippseyja er í dag tífalt verðminni en hann var fyrir átta árum.

Á síðustu árum hafa japanskir heimsvaldasinnar rutt sér æ meira til rúms á Kyrrahafssvæðinu. Japönsk einokunarfyrirtæki hafa í vaxandi mæli tekið upp samkeppni við bandarísk. Þetta á sér ekki hvað minnst stað á Filippseyjum. Alþýðunni þar er enn í fersku minni framferði japönsku fasistanna á heimstyrjaldarárunum og finnur skiljanlega hjá sér þörf til að rísa upp gegn leppstjórn Marcosar forseta, berjast gegn því sem hann er fulltrúi fyrir: Heimsvaldastefnu hernaðarstefnu og lénsskipulagi.

Í dreifbýlinu þróast framhald hinnar vopnuðu bændabyltingar, sem hófst á fjórða áratugnum og endurskoðunarsinnarnir í kommúnistaflokknum sviku. Með því að fylgjast með deilum sovézka og kínverska kommúnistaflokksins tókst byltingarsinnunum að losa sig undan áhrifum stéttarsvikaranna og hinn 26. des. 1968 stofnuðu þeir nýjan flokk ( Nýja kommúnistaflokk Filippseyja). Á grundvelli marxismans-leninismans, hugsunar Maós Tsetungs var skilgreind undirstaða nýlýðræðislegu byltingarinnar á Filippseyjum. 28. marz 1969 voru skæruliðasveitir þær, sem börðust fyrir hugsjónum flokksins endurskipulagðar í Nýja alþýðuherinn, sem lýtur stjórn flokksins. Frá þeim tíma stjórnar flokkurinn bæði vopnuðu baráttunni og hinni pólitísku. Mikilvægt er í þessu sambandi að gera sér grein fyrir að flokkurinn leiðir hina pólitísku baráttu innan þjóðlegu einingarfylkingarinnar gegn heimsvaldastefnu og fasisma, sem vaxið hefur fram á Filippseyjum á 7. áratugnum og telur stundum meira en 100.000 manns í kröfugöngum sínum.

1971 var sett fram kenningin um langvarandi þjóðfrelsisstríð. Nýi alþýðuherinn, sem vinnur eftir þessum kenningum, hefur unnið mikið á í baráttunni og frelsað stór svæði. Hann vinnur á sama hátt og alþýðuherir Kína og Víetnam hafa gert, þ.e. beina aðaláherzlunni að sveitunum og umkringja borgirnar. Á tæpum þrem árum hefur þeim tekizt að fella og særa meira en 1.000 manns af stjórnarliðinu. Í þeim fáu fréttatilkynningum, sem Nýja alþýðuhersins er getið hér á vesturlöndum eru hermenn hans oft taldir þeir höfðustu sem um getur. Þrátt fyrir ýmsa smærri ósigra er óneitanlegt, að herinn fer sigurför, bændabyltingin vinnur sífellt á og alþýða sveitanna hefur verið virkjuð í andstöðunni og skipulögð gegn sínum fyrri kúgurum. Í norður- og miðhluta stærstu eyjarinnar, Luzon, hafa stór svæði verið frelsuð og stíkt hið sama má segja um flestar aðrar stærstu eyjarnar.

Byltingarráðum hefur verið komið á fót í meira en 800 bæjum í 18 af 67 héröðum landsins. Þessi ráð hafa pólitísk völd í bæjunum og þau hafa skipulagt alþýðuna í baráttunni. Þau hafa einnig skipulagt einfaldar landbúnaðarkommúnur og lækkað jarðargjöld eins og frekast er unnt.

---

DÍALEKTÍSKA OG SÖGULEGA EFNISHYGGJAN

Díalektísk og söguleg efnishyggja

KSML hafa hafið útgáfu á efni grundvallarnámshringsins. Fyrsti bæklingurinn er Díalektíska og sögulega efnishyggjan eftir Stalín úr "Sögu Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna (B)", sem er lesefni 2. námsfundar. Verð bæklingsins er 100 kr. Einnig verða aðrir námsfundir gefnir út í bæklingsformi og sá næsti er um flokkinn; 8. námsfundur.

Aðrir væntanlegir bæklingar á vegum KSML eru: Heimsvaldastefnan og klofningur sósíalismans eftir Lenín og Eldlína hinnar sósíalísku frelsisbaráttu - Saga Víetnam stríðsins.

---







VERKAMENN!
Án þekkingar um stéttarlegt eðli og orsakir verkfalla verður barátta okkar aðeins barátta um krónu til eða frá. Krónu, sem verður hirt af okkur aftur með verðhækkunum eða öðrum meðulum hins kapítalika ríkisvalds. Alþjóðleg baráttureynsla stéttarbræðra okkar í verkföllum við margbreytilegar aðstæður er vopnið, sem við verðum að beita gegn hertu arðráni og launaskerðingu auðvaldsins og til þess að geta gert verkfallsbaráttuna að byltingarsinnaðri baráttu fyrir sósíalismanum.
Lesið bæklinga KSML:
REYNSLAN AF KJARABARÁTTUNNI (Strasborgarályktunin frá þingi Alþjóðasambands Rauðra Verkalýðsfélaga 1929) og UM VERKFÖLL eftir V.I. Lenín.

---

Reitur til áskriftarmerkingar.
Kommúnistasamtökin m-l Box 1357 Rvk.


ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIZT

Stéttabaráttan


GERIZT ÁSKRIFENDUR AÐ STÉTTABARÁTTUNNI!

Stéttabaráttan er eina blaðið á Íslandi í dag, sem þjónar hagsmunum öreigastéttarinnar og sögulegu hlutverki hennar. Stéttabaráttan hóf göngu sína í febrúar á s.l. ári og kom út fimm sinnum það ár. Ráðgert er að auka útgáfuna upp í 8 tbl. á þessu ári og gera blaðið að mánaðarblaði árið ´74. Eitt mikilvægt grundvallaratriði fyrir þessari þróun er traustur fjárhagur. Við skorum því á þá kaupendur blaðsins, sem enn hafa ekki gerzt áskrifendur, að gera það hið fyrsta.
Það er bæði KSML og þér í hag, að þú gerist áskrifandi að Stéttabaráttunni. Fyrir okkur þýðir það tryggari fjárhagsgrundvöll, fyrir þig tryggingu um að þú færð blaðið heimsent um leið og það kemur úr prentun hverju sinni.

TAKIÐ ÞÁTT Í ÚTBREIÐSLU STÉTTABARÁTTUNNAR!

KSML vilja skora á alla þá, sem styðja pólitík samtakanna, að taka einnig þátt í því starfi að færa út fræðikenningu marxismans-lenínismans meðal verkalýðsstéttarinnar og auka þannig stéttvísi öreiganna - með því að taka að sér sölu og dreifingu á blaðinu og hvetja fólk til að gerast áskrifendur.
Gerizt umboðsmenn Stéttabaráttunnar! Skrifið til KSML og fáið send nokkur aukaeintök af blaðinu þegar það kemur út og seljið það á vinnustað.

TIL ÁSKRIFENDA BLAÐSINS:

Við viljum brýna fyrir áskrifendum að tilkynna þegar í stað breytingar á heimilisfangi. Einnig biðjum við þá áskrifendur sem ekki eru búsettir á sama stað allt árið, að láta okka vita rétt heimilisföng og það tímabil, sem blaðið skuli sendast á hvern stað.
Sé um misbrest að ræða í dreifingu blaðsins biðjum við þá áskrifendur, sem fyrir því verða, að tilkynna okkur það tafarlaust.

---

Næsta tbl. Stéttabaráttunnar, þ.e. nr. 3 ´73, mun verða sent í póstkröfu til áskrifenda úti á landi sem rukkun á áskrift fyrir árið ´73. Hafi einhverjir áskrifendur úti á landi í huga að skipta um tegund áskriftar biðjum við þá að senda okkur þær breytingar sem fyrst eða áður en 3. tbl. verður unnið (f. 15. apríl).
Félagar í KSML munu innheimta áskriftir á Reykjavíkursvæðinu í marzmánuði.

AUKUM ÚTBREIÐSLU STÉTTABARÁTTUNNAR!

STEFNUM MARKVISST AÐ MÁNAÐARBLAÐI 1974!


STÉTTABARÁTTAN
Málgagn Kommúnistasamtakann m-l,
Pósthólf 1357, Reykjavík.

Venjuleg áskrift....... 200 kr.
Stuðningsáskrift....... 300 kr.
Baráttuáskrift......... 500 kr.